# LJÓÐMÆLI

EPTIR

GUÐM. GUÐMUNDSSON

---

MEÐ MYND HÖFUNDARINS

REYKJAVÍK

PRENTUÐ Í ALDAR-PRENTSMIÐJU

1900

LJÓÐMÆLI ÞESSI

ERU TILEINKUÐ

# SJERA EIRÍKI BRIEM

DOCENT VIÐ PRESTASKÓLANN
Í REYKJAVÍK

MEÐ DJÚPRI VIRÐINGU

OG INNILEGU ÞAKKLÆTI

HÖFUNDURINN

# FORMÁLI.

Það á ekki við að hafa langan formála fyrir litilli bók og skal jeg því vera fáorður. —Ljóðmæli þessi eru öll kveðin eptir árið 1893 að undanteknu einu kvæði (Knafahólar), sem er orkt það ár. Að eins fá eru kveðin 1894--95. Rúmsins vegna hef jeg sleppt ýmsum kvæðum, er jeg annars mundi hafa látið fylgja systkynum sínum. Mörg kvæðanna eru áður prentuð á við og dreif í blöðum og tímaritum, en meiri hlutinn er ekki áður prentaður. Erfiljóðum hef jeg öllum sleppt og nálega öllum tækifæriskvæðum og er það gert af ásettu ráði. Sömuleiðis er öllum kvæðum í óbundnu máli og þýðingum sleppt.

Yfir höfuð hef jeg fylgt rjettritun yfirkennara H. Kr. Friðrikssonar, — að eins breytt til á stöku stað, þar sem mjer þótti

betur fara rímsins vegna, t. a. m. „þó“ fyrir „þótt“ = „þó að“, ef samhljóðandi fer á eptir. Hr. stud. art. Sig. Guðmundsson frá Mjóadal hefur aðstoðað mig við prófarkalestur og kann jeg honum beztu þakkir fyrir. Lesendurnir eru beðnir að afsaka, að lítilfjörlegar prentvillur hafa orðið í bókinni, og vona jeg, að þær verði ekki til mikils baga; jeg nenni ekki að telja þær upp sjerstaklega, þar sem þær raska hvergi efni; en þess skal getið, að fyrir vangá er prentvilla á bls. 112: „ertu“ fyrir „er vor“, og eru menn vinsamlega beðnir að athuga þetta. Myndin framan við bókina er tekin eptir ljósmynd eptir hr. Árna Thorsteinsson ljósmyndara.

Að svo mæltu legg jeg ljóðmælin undir dóm heiðraðra lesenda.

**Reykjavík, í maímánuði 1900.**

**HÖFUNDURINN.**

# EFNISYFIRLIT.

HAFSINS BÖRN.

---

SIGRÚN Í HVAMMI.

---

LANDIÐ MITT LJÓSA.

Motto:

*Unser Herz ist eine Harfe,*
*eine Harfe mit zwei Saiten,*
*in der einen jauchzt die Freude*
*und der Schmerz weint in der Zweiten.*
*Und des Schicksals Finger spielen*
*kundig d'rauf die ewi'gen Klänge;*
*heute: frohe Hochzeitslieder,*
*morgen: dumpfe Grabgesänge!*

P. K. Rosegger.

# Prologus.

---

## Til hafsins.

Opt jeg hef í æsku starað
á þig, sær, með lotníng djúpa,
sjeð þig löðrið hvíta hjúpa,
horft á tár þín brimsölt drjúpa
nið'r á steina, — þegar þungum
þrumu-róm þú hefur svarað
því sem steinar þessir spurðu
þegar afl þitt gegndi furðu
og þú kletta klaufst að rótum,
kaldur svallst í djúpum sprungum,
fast að hvelfdum brjósta-bungum
björgin kreistir tökum skjótum.

Heyrt hef jeg þín hjartaslögin
hröð og þung og voldug falla,

heyrt þín fögru, háu lögin
hljóma langt frá strönd til fjalla,
heyrt þig drynja, heyrt þig kalla,
horft á ris þitt, sjeð þig falla,
— rísa aptur hálfu hærri,
hrikalegri, efldri, stærri,
þig, sem aldrei, aldrei þreytist
öldnum búinn töfrahami, —
þig, sem allt af, allt af breytist,
en ert jafnan þó hinn sami!

— Já, að þínum fjell jeg fótum,
frjálsi sær, í æsku minni,
beið þess, að mjer birtast kynni
boð úr þínu dular-inni,
hljóð frá þínum hjarta-rótum,
*hafsins börn* í skuggsjá þinni.

En þú kaldur á mig starðir,
ógndul bárur þínar geymdu,
sem með gný að ströndu streymdu,
steina gráa' er fast þú barðir.
Orðin þín jeg aldrei skildi,
og jeg sá þjer gramdist þetta,
og jeg sá þig arma rjetta
áfram lengra, — sem þú vildir
láta mig í faðm þjer falla,

forvitninni til að svala,
geima þína opna alla,
inni þinna huldu sala.
En hvernig sem jeg þráði' og þráði
þekking æðri' á djúpum þínum,
yfir hug og anda mínum
óttinn meiru valdi náði,
því jeg skalf fyrir' þjer, en unni
því, sem jeg ei sjálfur skildi,
sem mig draga, seiða vildi
sífellt niður' að þínum grunni.
— Fann jeg vel, að fangi var jeg,
*fangi þinn*, þó laus jeg gengi:
heima' í bæ og úti' á engi,
alls staðar þína fjötra bar jeg; —
á þeim trygga ást jeg festi
ósjálfrátt: fyrir hugsjón minni
sífellt stóðstu' í sjálfku þinni
sem hinn voldugasti, mesti.
Þjer jeg höfuð hneigði' og laut jeg,
hugann um þín dulmál braut jeg,
sá í anda: sali bjarta,
sá með augum: djúpið svarta!

*
*       *

Nú skal betur hugsjón hafa,
hverfa' um stund til sala þinna,
niður' í dökku djúpin kafa,

draumstöðvarnar gömlu finna, —
stjörnur telja' að bárubaki,
búa' í þínum töfrasölum,
saman binda' und silfur þaki
sæliljur í þínum dölum.

---

I.

## Höllin í sænum.

Undir kristalls hvelfing hárri,
hvítri, grænni, rauðri, blárri,
studd af kóralls stöplum vænum,
stóð hún, höllin, niðri' í sænum.
Ótal stjörnur sterkan bjarma,
streyma ljetu um þakið niður;
úti kvað við öldu kliður,
inni bjó þar ró og friður,
þar sem ljósa loga-arma,
langt í djúpið sólin teygði, —
þar sem björt hún höfuð hneigði
hulin sjónum jarðar búa.
Hvergi bar á birtu skugga,
blossi ljek um hallarglugga
alla setta aragrúa

yndislegra, dýrra steina, —
demantar í gullið greyptir
geisla brutu skæra, hreina,
turnar báru-blæjum sveiptir,
blikuðu' úr lýsigulli steyptir;
perlum lagðar súlur, svalir
sátu á gylltum veggja-brúnum, —
stafaði' ljómi af stöplum, húnum. —
Stórir voru' og rúmir salir
þar sem göfgur sævar-sjóli
sat á háum demants stóli.
Rauk af krásum, roði' af gulli
róslit skreytti veggjatjöldin;
þá var glatt er ægisöldin
inni sat að döglings fulli.
Hörpur gullu hafmeyjanna,
hátt í rjáfri kvað við ómur, —
eins og sætur svanahljómur,
sorgum eyddi' hann hafbúanna.
Sem í lundi leikur svalinn
líða sást um hallar salinn
hvítir armar, lokkar ljósir,
ljúfu augun, djúp sem hafið,
allt í töfraríkar rósir,
röðulblik og stjarnljós vafið,
skært er hvelfing gegnum glóði,
gegnum öldur, djúpar, bláar,

allt í ljósi einu flóði. —
Undur geyma djúpin sjávar, —
hversu margt þar mundi hulið,
mennskum augum falið, dulið!

---

## II.
## Konungsdóttirin frá hafsbotni.

---

Þar átti' hún heima, hafsins dísin góða,
hugljúfinn allra, göfug, ung og fögur.
Stjörnurnar björtu sögðu henni sögur,
sungu' henni bárur úrval sinna ljóða.

Hægt yfir geima hafs sem ljúfur andi
hýrbrosa fór hún, sat á bláum legi;
löngum hún söng, er lýsa tók af degi,
lögin sín fögru á vogi skammt frá landi.

Það var sem ljúfri þrá hún væri borin
þangað frá sínum björtu kristalls höllum,
undrandi' hún starði' á blikið bjarta' á fjöllum,
blómin, sem greru' á mararströnd á vorin.

Ljómandi örmum lypti' hún upp úr bárum,
ljósgullna hárið flaut í bylgjum skærum,
hafbláu augun tindruðu' í öldum tærum,
titrandi mardögg draup af augnahárum.

Hörpunnar strengi' í hlýja morgunblænum
hóglega stillti' hún, unun var að heyra
hljóminn, sem barst að haffarenda eyra,
hljóminn, sem barst í land af fagra sæn-
um.

---

## III.
## Milli fjalls og fjöru.

Við hafið blátt á breiðum tanga
stóð bærinn undir lágum hól, —
þar blöstu tún við sæ og sól,
og skammt til fjalls úr fjöru' að ganga
var yfir græna grund, er hló
við græðis silfurhvítum öldum,
er fjallið dökkri blæju bjó
í blænum mjúka' á sumarkvöldum.
Og kvöldreyk bláan bænum frá
þar bar til hlíða'; — í lognkyrrð djúpri

þar rigndi döggum rósir á,
er röðul syrgðu' í auðmýkt gljúpri.
— Þar dundi græðis gnýrinn hár
og gnauð og niður blárra voga, —
þar sýndust Ránar björtu brár
í blossum kvöld og morgun loga; —
en fjallið græðis niðinn nam —
og nöprum klið í brimsins rómi
það svaraði' hátt og sendi fram
til sævar dunu' af bergmálshljómi. —
Er brosti' í vestri blástjarnan
og blikið mánans ljek um sæinn,
þar hjeldu kvöldsöng hafgúan
og hamradísin rjett við bæinn.

Þar fiskimaður forðum bjó,
er farinn var af striti' og lotinn,
og hættur var að sækja sjó, —
nú sat hann heima' að kröptum þrotinn
— Hann átti barna einan son,
er *Auðunn* hjet og kotið byggði,
hann átti' að verða' hans eina von,
er ellin fyrir sjónir skyggði.
— Í æsku þótti' hann undrabarn
og einförum hann gekk frá bænum,
en öllum stundum sat hjá sænum, —
hann þótti fáum fylgigjarn.

Og snemma honum starsýnt var
á stóru, björtu öldurnar, —
og hlustað gat hann lengi, lengi
á löðurgnauð við klappirnar;
það var sem bærðu bárurnar
þar barnsins veiku hjartastrengi.

Á steinum hálum stökk hann opt
af stórum froðu-skvettum drifinn,
er boðar upp sjer lyptu' í lopt
sem ljettur andi' af hafi svifinn;
hann hló er rokið skerin skóf
og skein í hvítar tennur Ránar,
er upp hún faldinn hvíta hóf,
sem himins bar við stjörnur fránar.
En stundum var hann hugsi, hljóður,
er hafið stundi lágt, en þungt, —
þá var sem bifðist brjóst hans ungt
sem barnsins hrygga' í faðmi móður.
— Það var sem Ægir aldni, kaldi
hann alveg hefði' á sínu valdi.

Úr fjörusteinum hús hann hlóð
við hafið frammi, suður' á tanga;
á litlum bala lágt það stóð
og langt var ei frá bænum þangað.
Hann flutti þangað lauf og lyng

og litla „skálann“ með því þakti,
og fram á nætur við það vakti
að velja þangað fásjen þing:
Hann veggina’ hafði skeljum skreytt
og skarað þakið hörpudiskum
og grúa’ af litlum, fögrum fiskum
í fjörupollum hafði’ hann veitt.
Þar átti hann fjölmörg ígulker
og aragrúa kufunganna,
að lausnarsteinum ljek hann sjer
við langspils-óminn bjartra hranna.

Þar voru sljettir steinar tveir,
er stóðu skála-veggnum undir,
og saman nærri náðu þeir, —
er næddi kulið yfir grundir
í skjóli’ hann sat þar skálann við
og skeljum að sjer ljek í næði;
en hafið drundi dimmum nið
og drengnum söng sín hetjukvæði.

IV.

## Hví situr þú allt af við sæinn?

Faðirinn:

„Hvað dvelur þig svona, drengur minn,
— finnst þjer dauflegt hjer heima við bæinn?
Jeg bíð þín með óþreyju sjerhvert sinn,
þú sjest varla guðslangan daginn!
— Hví situr þú allt af við sæinn?"

Auðunn:

„Jeg heyri svo fagran, sætan söng,
svo seiðandi, blíða hljóma,
er geislarnir vaka' um vorkvöld löng
og vogana sveipa ljóma, —
mjer dvelst við þá unaðsóma!"

Faðirinn:

„Æ, gættu þín, barn mitt, við hafsins hljóm
og hafmeyja fagurgala;
þær tæla með laðandi, ljúfum róm,
en — lygi er það allt, sem þær tala
um dýrðina sinna sala."

Auðunn:

„Jeg sje líka brosandi, bjarta mey,
svo barnslega stíga' upp úr öldum
og langt til hennar úr landi' er ei,

á leginum situr hún köldum
og syngur þar sætt á kvöldum."

Faðirinn:

„Æ, gættu þín, barn mitt, hún býr þjer tál
og banvænar raunir þjer eykur;
hún er ekki kristin, hún á ekki sál
og ef hennar tælir þig leikur,
er dauðinn þjer búinn bleikur.

Og því er jeg kominn á þennan dag,
— já, því máttu, drengur minn, trúa! —
að tælt gat mig ekki það töfralag,
og til þess í hafinu' að búa
jeg hvergi ljet huga snúa."

Auðunn:

„En þessi mær er svo mild og góð:
í morgun við skerin svörtu
hún söng við hörpuleik himnesk ljóð
um hallirnar sínar björtu
og elskandi hafmeyja hjörtu.

Hún talaði um ást og tryggð og frið, —
— jeg trúi því ekki', að hún ljúgi! —
hún söng um hvíldina hjarta sitt við
og hugann, sem víða fljúgi; —
það er alls ekki leið að hún ljúgi!"

## V.
## Stigin á land.

Við hafið stóð Auðunn. — En hafmærin bjarta
ljet hörpuna falla, á sveininn hún starði.
Það tindraði eitthvað í auganu svarta
eins og hún tárfelldi', — og minnst er varði
hún rjetti' honum höndina
og — steig upp á ströndina! — —

Hún sveigði' honum liljukrans ljósum að enni;
— sem lostinn elding hann stóð þar hjá henni;
honum fannst sem hann væri' í sæinn að sökkva,
hann svimaði', en grafkyrr hann stóð;
hann skalf, er hún hrærði við hárinu' hans dökkva,
hann hvítnaði og svo varð hann rauður sem blóð.
— Hún lagði' um hann arminn sinn,
byrgði' hann við barminn sinn . . . .

Hann sýndi' henni blómin og sólroðin fjöll,
hann sýndi' henni skálann og gullin sín öll.
Og laufin á þakinu blöktuðu' í blænum, —
hún brosti, svo margt var þar heiman úr
sænum.

---

Í faðmlögum ljúfum þau styttu sjer stundir,
á steinunum sátu þau húsveggnum undir.

*

* *

Og óttinn var horfinn og hjartað hans sló
við hafmeyjar snjóhvítan barm.
Hann margkyssti brosandi' hinn mjúka
arm,
hann margkyssti' af hafseltu döggvotan
hvarm.
Það læsti sig um hann hin ljúfa ró,
sem lengi' hafði' hann vitað, að bjó
hjá hafsins börnunum bljúgu
undir boðunum úti' á sjó.

— — — Það loguðu' í vestrinu lýsandi bál
og ljeku við öldurnar dátt;
það gjálpaði' í sænum og gjálfrið hans óx,
varð gnýþrungið smátt og smátt,
og öldurnar lyptu sjer himinhátt,
á hömrunum reyndu sinn tröllaukna
mátt

og gleyptu' hina sígandi sól;
þær löðurkamb reigðu við lopthvolfið
blátt,
hið ljómandi haf varð nú úfið og grátt
og fegurð í djúpinu fól.

„Nú er faðir minn reiður!“ hún hvíslaði
hljótt,
hún hrökk upp úr draumi, úr fangi' hans
sig sleit;
hún kyssti hann á ennið og fleygði sjer
fljótt
að flóðöldu brjósti', en snöggvast leit
á vininn sinn unga, sem agndofa stóð
þar eptir við skálann sinn lága, —
svo hvarf hún, en kvöldroðans glitrandi
glóð
úr geislum um borg hennar virki hlóð
við gínandi brimhvoptinu gráa.

Og unnirnar trylltust í töfradanz
við tangann og skerin svörtu;
en ríkust var mærin í huga hans
með höllunum sínum björtu.
Hann langaði' að varpa sjer líka' á kaf:
það lokkaði' hann eitthvað með dulefldum
hreim,

en það bægði' honum frá, hið freyðandi haf,
og frá því hann reikaði heim.

---

## VI.

## Á landi eða í sjó?

Og hann sat margan morgun þar
og meyjarinnar beið.
— Og hjartað unga órótt sló
— og augun mændu fram á sjó,
unz lyptu öldur ljettstígar
á landið henni upp úr mar, —
til skálans lagði' hún leið.

Þá birti yfir brá hans æ,
er barnið ljúfa kom frá sæ;
af enni' hans hverja hrukku' hún strauk
og hvíldi' í faðmi' hans þangað til
að bárur æstust, brimið rauk
og blikhvítt sædrif um þau fauk,
þá varpaði' hún sjer í hrannar hyl
und hvítan öldu krans;
hún ljek á hörpu', og landi frá
— sem lilja', er vogum ruggast á, —

hún leið unz hvarf hún, ljett á brá,
í ljettum báru danz'.

---

Um fjöruna leiddust þau löngum,
og ljóðin sín þar hún söng
um hallirnar sínar, um hafsins djúp,
um hulin sævar göng,
um ljómann að bárubaki,
um blómgarða föður síns þar,
um kórallasúlur og krystalls-skraut, --
hvert kvæði' hennar unaðsríkt var.

Í anda með henni um sædjúpin sveif hann,
hún seiddi' hann, hún töfraði' hann, fjötr-
aði' hann, hreif hann;
hún kvað um, hve ljúft væri' að blunda'
í blænum
á blómgresi mjúku þar niðri' í sænum.
Og hugfanginn hlustaði' hann á.
En hann þorði ekki' að fylgja:
hin freyðandi bylgja
með brimkrýnda brá
bægði' honum frá;
hann titraði', er ylgja og löðrandi lá
lyptu sjer ógnandi' að ströndunum grænum.

---

Hún undi' ekki framar í föður síns höll
við fegursta skraut og glaum:
við sveininn hvíldi' hennar hugsun öll
í hugljúfum unaðsdraum. —
Við skerin hún sveimaði' á öldunum ein
og óð sinn til vinarins söng,
og mændi' upp í blátjöldin himinsins hrein
um heiðbjörtu vorkvöldin löng.

Svo lifðu þau bæði í brennandi þrá,
en báðum var uggur í hug:
hún óttaðist fjöllin afarhá
með ögrandi hengiflug;
hún vildi', að hann hyrfi í voginn til sín, —
hann vildi', að á landi hún tæki sjer ból.
Hann trúði' ekki þessu: að skrautlegust skín
und skjálfandi unnum hin dýrðlega sól.

— Þau mændu' á gæfunnar gullna skerið,
þau gátu' ekki skilið nje saman verið.

---

## VII.

## Söngvarnir hennar.

---

### 1. Bú þú hjá mjer!

Bú þú hjá mjer!
Und blágrænum tjaldhimni', — í blikandi sölum, —
und blaktandi fánum á marmara svölum
jeg halla mjer brosandi' að brjósti þjer, —
bú þú hjá mjer!

Bú þú hjá mjer!
Á hafsbotni er fagurt í liljureit ljósum,
og ljómandi garðar með fjöllitum rósum;
jeg hnýti' úr þeim blómsveig að brjósti þjer, —
bú þú hjá mjer!

Komdu til mín!
Og horfðu' á frá gnæfandi háturna riði,
er hnigur hin logandi sólin að viði.
Komdu, æ, hjartað mitt, komdu til mín,
komdu til mín!

Vertu hjá mjer!
Og lof mjer, er ofan að ljósstraumar fossa
í lundinn, að njóta þar brennandi kossa.

Viltu' ekki koma og vera hjá mjer?
Vertu hjá mjer!

Dvel þú hjá mjer!
Og líttu' á, er gullfiskar litfagrir sveima
í lýsandi röðum um sjávarins geima;
daufir þar verða' ekki dagarnir þjer,
dvel þú hjá mjer!

Sit þú hjá mjer!
Þægileg hvíld er í þakhvelfdum sölum, --
þar slæ jeg hörpuna' í laufgrónum dölum,
auga þitt fjölbreytta sóldýrð þar sjer,
sit þú hjá mjer!

Blunda hjá mjer!
Gegnum hin rósofnu glitbáru-tjöldin
glampa þar stjörnurnar tindrandi' á kvöldin;
blævængir töfrandi blakta' yfir þjer,
blunda hjá mjer!

Sveima með mjer!
Ó, líð þú með mjer yfir marflötinn sljetta,
er máninn og blástjarnan ljóssveiga fljetta,
þar himin þú minnast við sædjúpin sjer,
sveima með mjer!

Komdu til mín!
Komdu úr rislágu kofunum þínum,
komdu og bú þú í höllunum mínum.
Komdu — jeg grátbið þig — komdu
til mín,
komdu til mín!

## 2. Jeg er hafsins barn.

Þú hikar, vinur, óttast æginn svala,
og ekki segist þangað fylgja mjer;
þú veizt ei, hvað jeg kenni sárra kvala,
er kveð jeg þig og niður' í sæinn fer.
En jeg er hafsins barn og við það bundin, —
þig binda fjöllin, nesið þitt og grundin.

Þú segist óttast hafið, hljóta' að deyja,
ef hyldu bárur kaldar auga þitt, —
en þig skal hvorki böl nje dauði beygja:
jeg byrgi þig við ástarhjartað mitt.
Og trylltar öldur hlýða hafsins drottning
og Helja sjálf mjer nauðug veitir lotning!

En þó mjer allar hafsins öldur hlýði,
mjer heldur eitthvert dulríkt töfravald;
jeg veit, að þó að sænum frá jeg flýði
und fjalla þinna bláa silkitjald,

jeg ósjálfrátt þó hlyti' að hverfa aptur
til hafsins, svo er ríkur mjög þess kraptur

Og þó mín ást sje hæstu fjöllum hærri
og hundrað sinnum dýpri' en kaldur sær,
jeg get ei unað átthögunum fjærri,
já, enda þótt jeg sje þjer, vinur, nær!
Jeg skil: við hvorugt sköpum megum
renna, —
jeg skil — og tár á vöngum mínum brenna!

### 3. Svo hverf jeg þjer frá.

Svo hverf jeg þjer frá, —
en er haftjöldin ljóma svo skínandi blá,
þá líður mín þrá
yfir löginn í skjálfandi blænum,
er hnípin jeg sit niðri' í sænum
með saltdrifna brá!

Er sævarins drótt
er öll sofandi, vaki' eg um fjölstirnda nótt,
og raunirnar hljótt
skal jeg rekja við skerin þín svörtu;
í hafdjúpa höllunum björtu
mjer hvergi mun rótt.

Hin ógn-þungu sog,
er að eyrum þjer bera' yfir rjúkandi vog,
er skínandi log
    með skrautdjásni himininn krýna,
    — þau minna á harmstunu mína,
þau meinþungu sog!

### 4. Jeg er rík!

Hví var jeg dæmd til þess að elska þig, —
    þig, sem ert ekki hafsins barn sem jeg?
    Hefur mig ástin villt af rjettum veg
á villustig?

Hví get jeg ekki elskað hafsins son,
    unað í mínum geislaríka sal?
Hví fann jeg ekki ást og frið og von
    í öldudal?

Þess skal jeg aldrei iðrast, vinur minn,
    ástina mína' að jeg hef helgað þjer:
margfaldað hefur hana andi þinn
    í hjarta mjer.

Og fari svo, við eigum ekki' að sjást
    aptur, og hafið geymi mig sem lík,

glöð er jeg, því við harmstríð eykst mín ást,
    þá er jeg rík!

Þá er jeg rík af óþrjótandi auð,
    afli, sem ber mig, — ljósi', er bjartast
                                        skín,
    er síðast legg jeg aptur augun mín, —
þá eg er dauð!

### 5. Jeg fylgi þjer ósæ!

Jeg fylgi þjer ósæ um sollinn sjá
    og sjerhverju böli ver þig,
og grípi þig ægis aldan blá,
    á örmum að landi' eg ber þig.

Jeg bið þig ei framar að fylgja mjer:
    jeg finn, að það stoðar eigi;
en hjartað mitt allt af er hjá þjer
    að æfinnar hinnsta degi.

En komdu sem optast út til mín
    á æginn í bátnum þínum;
jeg mæni' upp úr bárunum bláu til þín,
    úr björtu höllunum mínum.

Og endur og sinnum upp til þín
um aptaninn skal jeg sveima
og aptur við brjóst þitt, elskan mín,
um ástina fyrstu dreyma!

---

## VIII.

### Slysið.

Og tímar liðu. — Liðin voru ár
og leynifundir margir út við haf.
Og faðir hans með brostnar, aldnar brár
und blómum grónu kumbli dáinn svaf.
Á tanganum nú Auðunn eptir bjó, —
en einrænn líkt og fyrri þótti hann.
Hann gaf sig mest að því að sækja sjó, —
við svörtu skerin beztu mið hann fann.
Á kænu einn með öngul sinn og vað
hann úti þar til kvölds frá morgni lá.
og þegar loks á kvöldin kom hann að,
var kænan hlaðin, þó að úti' á sjá
ei hefði fiskvart orðið öðrum hjá, —
það undruðust menn, en sízt þó skildu' í því,
að honum skyldi aldrei berast á,
er öskuroki' og brimi lenti' hann í.
— En þegar ekki út á sjóinn gaf,

hann úti sat við kofann fram við haf.
Þar vissi enginn, hvað hann hafðist að,
því hjelt hann leyndu, sagði engum það.

Það var um kvöld, — þá sat hann úti' á sjó,
er sólin rann, og fiskamergð hann dró,
og fjöl-litt hreistur gyllti aptanglóð,
og glaður þar á skammri stund hann hlóð.
Og það kom eitthvað þungt á öngulinn.
„Já, þarna", kvað hann, „happadrátt jeg fæ!"
— og út hann laut og yfir borðstokkinn —
„til einkis jeg á hafið sjaldan ræ!"
Og ungan svein hann upp að borði dró
með öngul kræktan rjett í hjartastað;
á hár hans glóbjart hinnstu geislum sló
hin helga sól, er viði gekk hún að.
En augun voru lokuð, brostin brá, —
um broshýrt andlit dauðans fölvi ljek.
Og Auðunn hrökk sem höggormsbitinn frá
og hvítur eins og nár sjer undan vjek.
Hann missti færið, óvit í hann leið,
en aldan sveininn niður til sín dró.
Og lítil bára' að litla bátnum reið
og ljett á Auðunn dreypti köldum sjó.
Þá reis hann upp, en mælti ekki orð.
Á augabragði reri hann í land,

og starði skelfdur fyrir bátsins borð,
unz bátinn heima dró hann upp í sand.

Og sítt hann slúta sjóhatt ljet það kvöld,
hann sýndist reika, — hirti' ei aflann sinn,
hann starði' á hafsins bláu bárutjöld
og brot með fingrum gerði' í skinnstakkinn.
— Hann settist aleinn út við skálann sinn
og álútur þar studdi hönd und kinn
sem fangi, er dauðadóms síns skelfdur bíður
og dauða þyngri hugarkvalir líður.

---

## IX.

### Síðustu samfundir.

Og hún kom frá sænum
með sorgþrungnar brár;
það flögraði' í blænum
hið fallega hár.
Og harpan lá brotin við brjóst hennar nakið.
— Hve brá honum nú við fótatakið!

Um örskamma stund
nam hún stað skammt frá honum.
— Svo studdi hún mund
að steininum hjá honum.

Í auga' hennar titruðu ást og dauði,
á andliti fölvinn og litblærinn rauði.

En upp hann þorði
ekki' enn að líta;
hann sat og horfði
í sandmöl hvíta.
Þá greip hún þegjandi
þrekna arminn hans
og höfuðið hneigjandi,
hvíldi við barminn hans.

---

## X.

## Hafmærin syngur.

---

1.

Tvær liljur áttum við ljósar í mar;
önnur er ung og veik,
önnur er dáin og bleik!
Þekktirðu' ei svipinn, sem hann bar?
Sástu' eigi, hvað hann þjer líkur var?
Hann er dáinn, æ dáinn
— og bráin hans lokuð og bleik!

Hann leitaði' að perlum í ljósum mar.
Hann var svo ljúfur í lund,
hann ljek sjer um aptanstund;
í höllunum sjaldan hann heima var, —
hann hjalaði aleinn við stjörnurnar
og bað þær og bað þær
að lypta sjer ljett yfir sund.

Nú hvílir hann dáinn í djúpum mar,
og hjartað hans hætt að slá,
hjartað hans, sem jeg á! —
En optar þú mátt ekki úti þar
um öldurnar reika ljósfextar,
svo hún deyi' ekki dóttirin
okkar með brosið á brá!

2.

Hví gætti' eg þín ei betur, barnið mitt?
— þig bar til landsins allt af kynleg þrá:
að hálfu leyti þar var ættland þitt
og það jeg hefði fyrri átt að sjá
og vernda þig og forða voða frá.

Nú hefnt er þess, að eg hef bundið ást
við eðli það, sem komið var af jörð;
það gat ei blessast, — gæfu-von mín brást

og gjöld þess fæ jeg sár og köld og hörð.
Við haf er bundin hafsins barna ást!

Jeg lagði' á óskylt eðli í brjósti þjer
þá ást, er sævar börnum heyrir til.
Nú skil jeg það, að það var rangt af mjer,
en þess jeg hvorki iðrast get nje vil,
en skylt að forðast framvegis það er:

Jeg hlýt að gæta hennar, sem við ein
í hafsins djúpi eigum, vinur minn,
svo hönd þín búi' ei henni banamein, —
nú hlýt jeg, fyrst þú myrtir drenginn
þinn,
þó slys það væri, að sjá þig hinnsta
sinn.

Jeg mundi titra', er hönd þín hrærði mig,
og hrolls jeg kenndi við þín faðmlög blíð;
á dauða' hans minnti mig að líta þig, —
það mundi vekja báðum hugarstríð.
Í dóttur okkar elska skal jeg þig!

3.

Jeg fyrirgef þjer, elsku vinur, allt,
en okkar vegi skilur núna hjer.
En ekki samt þú um mig halda skalt,

að ósátt fari jeg í burt frá þjer!
— Þú hefur okkar beggja barnið deytt,
barnið, sem — fyrst þú ekki komst til
mín, —
gat missinn bætt og böli mínu eytt,
barnið, sem ljúf var eptirmyndin þín.

Það gat mig sætt við þungu kjörin mín,
það var af hafsins blóði, en líka þitt!
— Mjer aldrei sólin upp á landi skín
og augað framar sjer þig ekki mitt:
jeg fer í hafsins djúp, og döpur þar
hjá dóttur okkar bý í Ránar sal; —
unz skola brostin augun öldurnar,
þar ein í hjarta geyma þig jeg skal.

Mjer banna bæði hafs og himins lög
að halla framar mjer að brjósti þjer; —
og nú er þín jeg þung finn hjartaslög,
er þögul rata leið að hjarta mjer,
þá skelf jeg, — að því get jeg ekki gert,
þó grátin örmum hinnst jeg vefji þig:
jeg finn, að sá þú varst og allt af ert,
í óhamingju' er sæla gerir mig!

4.

Og, - - góða nótt, vinur minn, — góða nótt!
— nú geng jeg heim til að sofa.

Hjá stjörnunum mildu', er hægt og hljótt
í hafið síga, jeg blunda rótt,
ef sorgirnar sáru það lofa.

Jeg kveð þig við litla laufskálann,
sem lífsminning kærsta geymir;
jeg kysi að eiga heldur hann
en hallir mínar og krystallsrann,
þar sólblik um sali streymir.

Og verið getur það, góði minn! —
er genginn er lífs míns vegur,
að sveimi hjer stundum svipur minn
um sumarkvöldin við skálann þinn
svo dökkur og dapurlegur!

---

## XI.

## Horfin!

Það hrundu' á brjóstið hennar logskær tár,
í hátign sinni' er steig hún út á mar
og sjónum hana huldu öldurnar
og heim til skálans runnu síðast brár.
— Svo grátið að eins geta hafsins börn!

Og hann sat eptir. Enginn vissi það,
hvað innst í huga' hans þessu sinni bjó,
en það er víst, að það var ekki ró; —
hann þungan stundi', er heim hann gekk
og kvað:
„Svo geta elskað að eins hafsins börn!“

En eptir það hann aldrei kom á sjó,
— og aðrir menn hann sögðu geðveikan.
Hann heima þar á bænum sínum bjó, —
það bar við sjaldan, út að gengi hann.
— Hann var að syrgja heima hafsins
börn.

Það liðu stundir. Liðu fjölmörg ár,
og litli skálinn fallinn var í grunn.
Og mjallhvítt Auðunn hafði skegg og hár
og hrukkótt ennið, kinn hans föl og þunn.
— Allt af hann syrgði sáran hafsins
börn.

---

## XII.

## Grafsöngur hafsins.

Það er dapurt í höllinni dýrðlegu' í sænum,
það er dökkblæjum vafið um súlurnar björtu.

Sjá, hve marliljur drúpa á grasbeðum grænum,
það er gráthljóð í sölum og angurvær hjörtu.
Allur hirðglaumur þagnaður, hörpurnar brotnar,
það er hljóðlega gengið um konungsins sali;
það er undarleg kyrrð, sem í djúpinu drottnar,
og um djúpið fer nákaldur, þjótandi svali
eins og hrímþoku blær
eða helkaldur snær
fer um haust yfir dali.

Sjá, yzt við hallar-hlið
er gullörk borin, búin dökkum tjöldum,
og bærast skari sjest und unnum köld-um,
er staðar nemur stóran gullsal við.
Á demantssúlum dökkir fánar blakta,
við dyrustafi vafningsrósum þakta, —
þar gengur fólkið upp um undið rið,
þar óm má heyra' af döprum sorgarklið:

„Deyið þjer, stjörnur, — dáin er hin bjarta
drottningin hafs, er þjer ei jafnist við!
Breiddu um eilífð blæju, nóttin svarta,

blómin þau á, er fegurst sjerðu skarta, —
grúfðu' yfir sölum, grúfðu' í hverju hjarta,
greið þú oss leið um dauðans borgarhlið:
Dáin er hafsins drottning, — hafsins blómi!

Gullkumbl skal bein þín, blóminn hafs-
ins, geyma!
bjarta, hugljúfa, —
unga, inndæla!
Um þig mun hafsins alla sonu dreyma,
andar þess hljóðir við þitt grafkumbl
sveima.
Sólin sæborna!
Ljósið ljúfasta! —
Sæll væri hver,
er svæfi hjá þjer,
sem ætti' í gröfinni hjá þjer heima!

Sofðu, hnígðu
að sonar þíns armi
og legg hann liðinn
að ljósum barmi!
þú dóst af djúpum
og duldum harmi!

Sofðu, sofðu!
dóttir hafsins,
dísin hafsins,

drottning hafsins,
um eilífð er lokað þínum ljósa hvarmi!“

* * *

Það kvöld var napurt og kalt og hljótt
við kofann suður á tanga.
Og þaðan sást aleinn um þá nótt
hann Auðunn mjög síðla ganga. —
En aldrei sáu menn eptir það
hann optar til hafsins ganga.

---

## XIII.

## Gamla bókin.

Hann pabbi átti æva-gamla bók, —
af elli voru blöðin rotin, máð.
Hún lá í ruslakistu úti' í krók, —
jeg komst að því og loks gat henni náð.
Hún geymdi sorgarsöngva'. um hafsins
börn.

Jeg veit það núna, að það eru ljóð,
sem Auðunn kvað, — þó munu fleiri týnd.
En hugðnæmt grunar mig að þyki þjóð,
að þau með sögu' hans einnig verði sýnd,
hin ljúfu sorgarljóð um hafsins börn

---

## XIV.

# Úr ljóðabók Auðunnar.

(Brot).

---

1.

### Hafsins dóttir.

Nú syngur þú lögin þín ljettu,
ó, ljúfa unn,
við mína strönd!
Komdu og rjettu mjer — rjettu
yfir róslitu bárurnar hönd!
Er brostið hið bjarta auga, —
augað þitt,
sem á mig skein
við þanggróinn, fornan fjörustein?
:,: hafsins dóttir! :,:

Gat ástin þín hafdjúpin hitað,
svo heljar köld,
svo nístingsköld?
Geturðu, góða mín, vitað,
hve jeg græt þig nú sáran í kvöld?
Um tryggð þína heyri jeg tala
sjerhvern stein
hjá svölum mar!
Hví fórstu þá heim í hallirnar,
:,: hafsins dóttir? :,:

Hví gaztu' ekki lifað á landi
og hvílt þig hjer
við hjartað mitt?
Líður þú enn þá sem andi
yfir elskaða heimkynnið þitt?
Er blástjarnan blikar skærast,
ljúfum draum
jeg lít þig í, —
mjer er sem jeg finni faðmlög hlý,
:,: hafsins dóttir! :,:

2.

ALDA MÍN!

Sævar að sölum
sígur dagsins bjarta ljós,
dimmir í dölum,
döggum grætur rós.
Einn jeg sit og sendi
söknuð burt í ljúfum blæ, —
er sem blítt mjer bendi
barnsleg þrá að sæ.
Alda, kæra alda!
eyrum fróar gnýrinn þinn.
Alda, ljúfa alda,
eini vinur minn!

Vonirnar vaka,
vaka bak við faldinn þinn,
til sín þær taka
tryggar huga minn.
Lát þinn ljúfa niðinn
læðast inn um gluggann minn!
þennan þunga kliðinn
þráir hugurinn.
Alda, góða alda!
yrk þú til mín vonar-ljóð! –
Alda, milda alda,
ó, hvað þú ert góð!

3.

## Hún brást mjer ekki!

Mjer finnst jeg ekki finna til þess neitt,
að framar slái hjarta' í brjósti mjer.
Mjer finnst mjer ekkert yndi geta veitt:
allt, allt er farið! — Sál mín dó með þjer!
Jeg er nú skuggi af því sem jeg var!

Þú áttir sál, þó sálarlausa þig
mjer segði faðir minn, er liggur nár.
En hefði' eg aldrei augum litið þig,
jeg orðið hefði laus við fjölmörg sár,
en — farið og við unað stærsta' á mis!

Og þú varst trygg, þó forðum faðir minn
við falsi þínu hafi varað mig.
En hefði' eg forðast fagra svipinn þinn,
já, forðast eins og heitan eldinn þig,
jeg þekkti' ei böl, en — þekkti' ei heldur ást!

Hann sagði heiðin hafsins börnin öll
og helju kvað hann búa ykkur hjá.
Jeg veit það eitt, að þú varst tryggða tröll,
en trúarbrögð ei minnst við höfum á, —
að trúarjátning aldrei ástin spyr!

. . . . . . . . . . . . . . .

4.

VIÐ SKERIN SVÖRTU.

Hún teygði mig út að hrannar hyl,
til hallanna sinna björtu.
Það lagði' um mig allan ljúfan yl
frá löðri við skerin svörtu.

Hún steig úr bárum í hvítum hjúp,
og hafseltan draup af barmi.
— Það ljek þá titrandi logi' um djúp
og leiptur und meyjar hvarmi.

Hún raulaði' eitthvert ókennt lag,
— sú aldrei mjer gleymist raustin, —
jeg heyri löngum þann ljúfa brag,
er líður á dag á haustin.

Hún skar úr mjer hjartað og þeytti því
þegjandi' á bálið rauða,
það brann þar ljósbleikum logum í,
það logaði' og brann — til dauða!

Hún snart mína hönd og hvarf mjer frá
til hallanna sinna björtu . . . . .
. . . . . . . . . . . . . . .
. . . . . . . . . . . . . .

## 5.

### Steinarnir á tanganum.

Það líður lítill skuggi
hjá laufskálanum mínum
við víkina' utanverða
þar vogar faðma tangann.
Sko, hægt og hægt hann nálgast!
Sko, hvar hann nemur staðar!
— Og blástjörnuna björtu
nú ber við yzta drangann.

Hví sveimar þessi svipur
svo síðla' um þessar slóðir?
Hví reikar hann í húmi
við hruninn kofann minn?
— Tveir steinar standa saman,
— jeg stundum sat á *öðrum*

þar úti undir veggnum.
Sko, eitthvað ber við *hinn*!

Heyr, svara þú mjer svipur!
Hví seztu' á steininn þennan
og aleinn auðra tópta
á aptni kyrrum leitar?
— Nú ýfa vindar voginn,
hann vætir dökkva steina.
Hvað vökvar nú minn vanga
og varir mínar heitar?

— Sko, burt hann líður, líður
að lágum mararfleti!
Jeg heyri sog úr sænum.
— Jeg sezt á steininn *minn*.
Hví titra dropar tærir,
sem tár í móðuraugum,
á hinum þar við hlið mjer?
Ó, hvar er svipurinn!

## 6.

### Í FJÖRUNNI.

Vogar stynja, vogar kveina,
volkast skelbrot milli fjörusteina,
gulbleikt þangið þekur klappar-rönd,
— þessa strönd
samt jeg jafnan elska eina:

þar rjetti' hún mjer síðast við hafið hönd!
— Á hrönnunum máfarnir veina.

Stjörnur brosa, stjörnur skína,
stafa' í sjóinn, skyggnast um og blína.
Spyr þú, sál mín, — ekkert, ekkert svar!
— Alls staðar
þögul dökku djúpin gína!
— Hvort sefur hún dáin hjá sæliljum
þar,
sem syrgi' eg um dagana mína?

7.

## Að boðabaki.

Hárin mín grána, óðum æfin þver,
ellin að mínum kofadyrum ber,
sjónin mín dofnar, senn jeg geng við staf, —
sjeð hef jeg ekki lengi' hið bjarta haf,
— ástin mín dvelur þar að boðabaki!

Veit jeg þar niðri lifir liljan mín, —
langar mig sáran fyrri' en æfin dvín
augum að renna yfir svalan vog,
öldunnar heyra djúpu, þungu sog;
— ástin mín dvelur þar að boðabaki!

Slepptu því, haf, sem hjá þjer geymt jeg á!
Hræra þig ekki tár mín, aldan blá?

— Haf, sem jeg elska, heyr þú andvörp
mín!
— hlustaðu' á gamlan vin, sem flýr til þín!
Ástin mín býr hjá þjer að boðabaki!

---

## XV.

## „Faðir minn!“

Hann hafði' ekki gengið í átján ár,
hann Auðunn, að björtum sæ;
hann að eins stirður við stafinn sinn
gat staulast um inni' í bæ.
Við aðra talaði' hann afar-fátt
frá óhappadegi þeim,
er öldurnar kváðu' honum líksöngslag
með löngum og þungum hreim.
Og torkennilegt var orðið allt
hans andlit og svipurinn;
hann talaði opt við sjálfan sig
um svalköldu hafdjúpin.
Svo var það einn morgun, — úr rekkju'
hann reis
og ranglaði fram að sjó,
og studdi sig lotinn við stafinn sinn,
en staðið gat varla þó.
„Jeg finn það“, hann kvað, „að kvöldar
skjótt

og komið er miðaptni af,
en áður en dey jeg, jeg eitt sinn vil sjá
þig, elskaða, bjarta haf!
Jeg vil finna þinn blæ, skoða brimrótið þitt,
er brunar að klöppunum flóð
og skefur upp sandinn og þrumar svo þungt
í þrúðefldum jötunmóð.
— Nú stígur hver minning sem móðir ljúf
úr mardjúpi', er brimfaldið skín,
og býður mjer hlýlega brosandi hönd
og býður mjer heim til sín. — —
Hjer var það ... en liðið er liðið — og það
ei lengur skal minnast á, —
við kunnum það, svaldjúpi særinn og jeg,
að segja því einir frá!
En nú er mjer öldungis óskiljanlegt,
að eg skuli standa hjer,
en blunda' ekki, haf, fyrir löngu lík
að ljómandi brjóstunum þjer!

---

Í allri sinni hátign hafið var,
í hvítri skikkju, bryddri morgunroða;
við himininn það brimkórónu bar
þar bjartir glóðu miljón demantar, —
og ljóma sló á brúnir hverjum boða.
— Það ómuðu hundrað hörpur samstilltar.

Þá var sem birti yfir öldungs brá, —
hann ofan tók og silfurhærur bar
við háa, bjarta hjálminn öldunnar, —
með helgri lotning, djúpri, leyndri þrá
hann mændi votum augum út á sjá.

Og hægt og seint sig færði' hann nær og nær,
sem nálægast hann hafið vildi sjá,
það ljek um brjóst hans ljettur, svalur blær
og löðrið rauk um hvíta öldungs brá.

Tveir bjartir armar fjellu' um hálsinn hans
og höfuð fagurlokkað auga' hans sá,
sem krýnt var unaðsljósum liljukrans,
það ljómuðu augun skær und meyjar brá.

—Þann svip hann kenndi fornum dögum frá!

„Faðir minn! — góði faðir!“ sagði' hún lágt.
— Framar að tala hafði' hann ekki mátt, —
hann lagði augun aptur, — báran köld
yfir þau breiddi mjallhvít silkitjöld.
— Nú hvíldi Auðunn, hranna vafinn armi,
að hafsins dóttur ástarríkum barmi.

## I.

## Æska og draumar.

Í dal upp til fjalla,
hjá fossum og lindum, —
þar skjól er af tindum,
um skorar og hjalla
er skakviðrin þjóta
og byltast og brjóta, —
þar bládimmir skuggar á grundirnar falla
í kynlegum, margbreyttum myndum,
— þar var það, að sat hún á sumrum hjá
og sólveigar drakk um morgna,
þar las hún í hlíðunum berin blá,
er brennandi geislar orna.

Hún hljóp út að smala
og hóa' eptir ánum,
hún hoppaði' á tánum
um lautir og bala;
á fótunum nettum
í klungrum og klettum

hún klifraði ósmeyk um bergveggi dala
og söng, svo það glumdi' í gjánum.
Af dísum í fossum og líðandi lind
hún lærði þar fallegar bögur,
af Jamviðrum geystum, er lömdu hvern tind,
hún lærði þar víkingasögur.

Og sólþrunginn blærinn
þar svæfði' hana stundum.
En neðar á grundum
stóð grasþakinn bærinn,
þar baldursbrá vakti
og bæjarvegg þakti, --
þeim blómum hún hlúði' að í tómstund-
um, mærin,
og fór um þau mjallhvítum mundum.
Þar átti' hún sjer foreldra, æskunnar vor,
þar uppi til fjalla' hún sá líða;
þar átti' hún í dalnum mörg ununar spor,
þar átti' hún og tárin sín víða.

Þar lærði' hún að unna
því unga og bjarta —
og sól var í hjarta,
er sólina runna
hún sá bak við tinda
og húmklæðast rinda.

Jeg vildi' að svo blikaði' í brjósti mjer
sunna,
er brýzt þar inn náttmyrkrið svarta.
Og sólbrosum hló hún, og sjerhvert það
tár
var sóldögg, í grasið er felldi' hún,
ef golan varð kælandi' og glúpnuðu brár,
ef gleymdist að ærnar teldi' hún.

Í sveitinni frammi
menn sögðu, að engi
þar sjezt hefði lengi,
sem *Sigrún í Hvammi.*
Og „staðfest" er var hún
af stúlkunum bar hún.
„Jeg teldi þann sælan, er Sigrúnu fengi!"
menn sögðu', er á rennvökrum gammi
frá kyrkjunni reið hún að Hvammi heim
og hleypti' yfir dalflötinn langa,
og vorblærinn ljek sjer í lokkunum þeim,
er ljósgulir fjellu' henni' um vanga.

### Vísur Sigrúnar.

#### 1. Bara syngja og lifa!

Grænu balar,
blómin dala,
blessað vor, — jeg elska þig!

Svana-tjarnir,
söngfuglarnir,
sælum töfrum heilla mig.
— — Það er indælt að lifa, er iðar og tifar
af æskunnar fjörkippum sjerhver taug
og baðast í skínandi ljósgeisla-laug,
er lukkunnar sólrúnir vonin á enni mitt skrifar.

Jeg er frjáls,
jeg er frjáls!
Sko, minn hvíta háls!
heyrðu mjer, lindin mín, er hann ei fagur?
..... Það er sólskin og sunnudagur, —
á sumrinu' er hátíðabragur.
Jeg skal hlæja með ljósálfum, leika mjer dátt,
meðan loptið er fagurblátt, —
það skal gjalla minn æskunnar gleðislagur
og gígjuna stilli jeg hátt, — svo hátt!
Jeg skal leika mjer, leika mjer dátt,
meðan ljómar á himni dagur!

„Æskunnar ljettúð er ellinnar grátur!“
Svo orti skáldið, — jeg heyrt hef það.
En er sama' um ljettlyndið ljúfa' — eða hvað?

— — Jeg elska þig, hljómandi hlátur,
jeg hirði' ekki' um það, sem hann kvað!
Hver iðrast þess mundi', að hann eitt sinn
var kátur,
þótt yfir hann raunirnar komi
í glóandi gleðinnar stað?
Það er gullstöfum ljómandi letrað það
blað
í hans lífsögu', er hann glaður var og kátur.

Og komi það til mín, sem kallað er „mæða“,
þá hlæ jeg svo dátt
og danza svo kátt
og þá syng jeg svo skært og þá syng
jeg svo hátt,
þessa ókunnu óvætt til að hræða,
að hún missi sinn töframátt!
Jeg hræðist engar „undir, sem blæða!“

Nei, þið megið tala,
þið megið hjala
um þetta allt! — jeg er glöð og ljett,
fæ und himninum bláum mjer hressandi
sprett
og hleyp yfir grundir og bala,
sem áður þá eg var að smala
og árgolan sendi mjer kælandi svala
í leynunum ljósgrænna dala!

Jeg vil eitt,
jeg vil eitt:
það að lifa,
að lifa!
Jeg verð aldrei þreytt,
meðan hjartað er heitt,
hvað sem í bækurnar örlögin skrifa.
Bara syngja' og lifa
Bara syngja' og leika sjer, lifa!

## 2. Upp á við.

Birzt þú mjer, guð, í þessum lita ljóma,
lypt mínum hug til þín!
— Rennandi sól milli skýsveiga skín,
er í skrúðgöngu fer hún með veldi' og sóma
að lýsa hin önnur löndin sín.
— — Nú lykjast krónurnar blóma.

*Grænt, rautt* og *blátt* hjá þjer er, eygló, eitt,
allt rennur saman, verður fagurgyllt!
*Von, ást* og *gleði* berðu' á brjóstum þjer,
blessuð, þær verður þú að senda mjer!
Verði þær í mjer eitt, — þess bið jeg heitt ...
æ, þetta kvöld er friðsælt, rótt og stillt!

Og þessi glittjöld, glæstum ofin rósum,
guð minn, eru það veggjatjöldin þín?
Hvar er þín höll í ljóma vafin ljósum?
Liggur hún bak við geislann, þarna'
er skín?
Dýrð þína opnar sólin, er hún sígur,
að eins til hálfs, en allt jeg vildi sjá,
*allt* fyrir handan tjöldin, guð, þjer hjá,
sjálfan þig grípur mín heitust hjartans
þrá,
hugurinn til þín yfir tindinn flýgur!
Þín leitar í eldmóði öll mín þrá,
einmitt er sólin hnígur . . . . .
*Bergmál*:
„Svo fer það allt af, er sólin sígur.“

### 3. Hún vaknar.

Viltu, litla lindin mín,
ljóðin þín mjer kenna?
Hver hefur kennt þjer kvæðin þín, —
kennt þjer hægt að renna?

Ef mjer væri innra rótt,
eins og straumi þínum,
sæl jeg skyldi' um sumarnótt
sjónum loka mínum.

## 6. Þráin.

Jeg heyri þitt mál
um mánabjört kvöld,
jeg minnist þín, andvaka', um stjarnljósar
nætur;
þín leitar mín sál,
er kvöldgolan köld
í kvistunum þýtur og himininn grætur.
— Þín leitar minn hugur um leiðsvalar
nætur,
er ljóstárum andvaka blástjarnan grætur.

Mig dreymdi', að jeg lægi' undir ljósgræn-
um feldi,
með lokuðum augum um mitti þjer hjeldi.

Og kaldstama höndina' um háls mjer þú
legðir
í hvílunni þröngu svo mjúklega' — og þegðir.

Og fjarlægir bærust mjer ómar að eyra, —
þar ómana' af brúðsöngum þóttist jeg heyra.

Og bergmálið hljómaði' í hólum og giljum, —
það ómaði hátt,
en ljúft og lágt

kvað lækurinn niðandi' og blómið
smátt:
„Hjeðan af aldrei um eilífð við skiljum!“

Jeg þrái þig heitt,
minn hjartkæri sveinn,
en hjartað er þreytt,
þú veldur því einn!
þú seiddir minn hug
frá sjálfri mjer burt
og sendir á flug,
en — drottinn veit hvurt!

Svo ljúf er mín þrá
á ljúflings míns fund,
sem lækjar að sjá,
sem blómanna' á grund
að vermast af sól,
að vaggast í blæ,
er húmið þau fól
og flyksur af snæ.

### 7. Dómurinn.

Í draumórum æskunnar dagarnir líða,
það dregur úr kröptunum, ánægjan þver;
að sakna þess liðna, því komandi' að kvíða
er kveifarlegt; hrinda því verð jeg frá mjer.

Svo farið vel, táldraumar, falsvonir bjartar,
jeg fleygi' ykkur öllum í gleymskunnar
djúp.
Þið gerðuð mjer stundirnir sorglega svartar,
þið sál mína klædduð í dimmbleikan hjúp.

Jeg saknað hef þess, er jeg þekkti' ekki'
hið minnsta,
en þú skalt ei fjötra mig, táldræga kennd!

þú sigurljóð þitt hefur sungið hið hinnsta
í sál minni, griðalaus dæmd skaltu' og
brennd!

Hvað varstu þá, ást mín? — Tóm hugsjón
og heimska, —
jeg hef ekki gætt mín og því varð jeg
blekkt;
til eilífðar grúfi nú yfir þjer gleymska,
í útlegð jeg rek þig nú fallna í sekt.

## II.

## Ófærar götur.

Hjá foreldrum í Hvammi sat hún heima
og hýrum augum renndi margur sveinn
til Sigrúnar, er sögð var kosti geyma,
er svanni þar í dalnum ætti' ei neinn;
af auð var gnægt, og ættin göfug þótti
og ágætt bú og fagur Hvammurinn,
og margur biðill heim þau hjónin sótti,
en hryggbrot fjekk og gekk burt ást-
drukkinn.

Nú var hún þroskuð, þrek í svipnum bar
hún,
og þó var hún svo ljúf og blíð og góð
með augum bláum, yndisfögur var hún,
svo íturvaxin, ljóshærð, fagurrjóð.
Og enn ljek hún sem barn við blómin ungu,
og brosti glaðast, þegar sólin skein,
og frá sjer hratt hún hugsununum þungu,
er hvörfluðu að, ef var hún stundum ein.

Og móðir hennar hulin fjölum dökkum
með hringing, söng og bæn var lögð í
gröf,
en eptir Sigrún sat með huga klökkum

og syrgði þá, er mókti' í hinnstu döf.
Nú alein fyrir föður búi var hún, —
en farinn var hann, lotinn, hærugrár; —
það sást, að stjórnvit, starfsþol mikið bar
hún
og stöðu sinnar betur gætti fár.

Svo giftist hún, og átti' hann *Eirík ríka*,
sem áður bjó á *Sandi' í Mjóadal.*
Og gæfu flestir gifting töldu slíka,
því göfugri þar enginn fyndi hal,
því fríður var hann, ungur ekkjumaður
með auð og hyggni, reynslu, þroska' og
dug.
Að búi' í Hvammi' hann settist síðan
glaður
og sæla daga leiddi sjer í hug.

Því konu sinni' af öllum hug hann unni,
til yndis henni gera vildi' hann flest,
en ást hans Sigrún ekki meta kunni,
og ást á honum gat ei nokkra fest.
Og lífið þetta kalda, kærleikssnauða,
það kvaldi bæði, á þó ljetu' ei sjá. —
Hún sagði, að risi' upp aldrei ástin dauða,
sem átti' hún fyrr, en burtu rak sjer frá.

## Vísur Sigrúnar.

### 1. Giftingin.

Klukkum er hringt, sko, hve kyrkjan ljómar,
komin með honum fyrir guð jeg er.
Söngurinn skær undir hvelfing hljómar,
hátíðablæinn sjerhvað á sjer ber.
Ljóskrónan glitrar og glerin brjóta
geislana', er streyma' í húsið inn,
blær finnst mjer hlýr um allt húsið þjóta,
hlýlega til mín lítur Kristsmyndin!

Hví kem jeg hjer? — Og hvað skal þetta
skrúð
og hvað sú viðhöfn? — Slíkt er kátbroslegt!
Til þess að hrífa hjörtun? — Ekki mitt! —
Og hjónabandið tryggja byggt á ást, —
*á ást!* — Þar kom það! — Ást, sem löngu'
er dauð
og allra sízt mjer hingað benti' í dag.

Hjer á að vinna *heit,* — já, þetta heit,
sem hefur ekkert gildi fyrir mig
í sálu minni', en sem jeg vinna hlýt,
ef synja skulu' ei lögin mjer um ráð
á jafnvel minnstu músarholu', er finnst
í mannfjelagsins torfrúst, — þetta heit,

sem hjartanlega' eg hata, en sem þó
jeg hlýt að vinna', ef saklaus börnin mín,
sem el jeg, skulu' ei heita holubörn.

Það lætur illa' í eyrum hljómur sá,
og eyrun fyrir vildi' eg geta byrgt.
„Trú, von og ást sje ykkar stjarna' og sól!“
— En ef það vantar? -- Hvað þá? Verð-
ur dimmt?
— Jeg elskað hef — *það held jeg;* var
það allt
tómt hugarvingl og draumur? - En það
var
þó sælt! — Nei, ekki, ekki' að hugsa' um
slíkt!
— jeg á að lifa, starfa, drepa hitt,
og jeg hef drepið, drepið, *drepið* það!

Þarf ást til þess að eiga' að sjá um bú?
þarf ást til þess að strokka' og mjalta kú?
þarf ást til þess að eiga nógu gott?
þarf ást til þess að sjá um fataþvott?
þarf ást til þess að elda góðan mat?
þarf ást til þess að sníða' og sauma fat?
þarf ást til þess að ala nokkur börn?
þarf ást til þess að mala rúg í kvörn?

Nei, jeg á enga ást, en samt jeg. vona,
að unnið geti' eg hlutverk mitt sem *kona!*

* * *

Jeg sagði „já“ — og honum gaf jeg hönd.
Hvað hef jeg gert? — Var þetta nokkur
synd?
— Sór jeg við guðs nafn? Ó-nei, en jeg
stóð
við altarið — og það er guði vígt!
Jeg stóð á helgum stað og *laug*. Og sjá!
það starði' á mig af veggnum Kristsmyndin
svo alvarleg, og ásökun jeg las
úr augum hennar, svip, — hún benti mjer
til himins upp, — og ljómi bjartur ljek
um ljósa brá og höfuð geislum krýnt!

Hver er mín sök? — Ef sagt jeg hefði
„nei“,
var sundrað allt og framtíð minni spillt,
já, minni' og minna, allt var eyðilagt,
að eyðileggja slíkt var líka synd.
En sök mín er: að sjálfa tældi' eg mig,
og sjálfviljug í kyrkjuna jeg gekk
og laug að guði' og laug að sjálfri mjer!

Það skelfir mig, það óttalega orð,
en öllu' er lokið, — það sem jeg hef sagt,

ei verður aptur tekið: Til hvers er
að tala' um slíkt? — Nú er jeg honum gift,
en aldrei, aldrei hjartað verður hans,
og hvað svo . . . . . . . . . .

Klukkum er hringt, sko, hve kyrkjan
ljómar,
kvíslast nú geislar um minn brúðarkrans.
Tónröddin hvellt mjer í eyrum ómar,
út er hjeðan geng jeg sem konan hans.
Ljóskrónan glitrar og glerin brjóta
geislana', er streyma' í húsið inn.
Augu mín finnst mjer nú eins og fljóta,
alvarleg starir á mig Kristsmyndin!

### 2. Nú og fyrr.

Dalgolan kveinar í kálviðaröngum,
kvæðin sín flytur á haustkvöldum löngum,—
jeg er leið á þeim sorgarsöngum,
sízt þeir mjer fróa; —
þá var annað, er úti' á móa
um ástir og von kvað lóa,
og bergmálið hreimfagurt hljómaði í dröng-
um
af hrynfossa glymjanda' í fjallgljúfrum
þröngum,
og svanirnir sungu' út hjá töngum
og sólblikið leit jeg á vængjunum glóa.

Þá var gaman að lifa' og leika sjer
og láta álfana með sjer hóa
í berginu, purpura-blóm þar gróa
hjá basaltgöngum.
Svo tómlegt og kalt
er nú orðið allt
umhverfis mig og loptið svalt, —
nú sit jeg hjer ein í öngum!

Jeg heyri rödd, sem hrópar snjallt:
„Þú hefur þinni gæfu spillt,
þú hefur líf þitt eitrað allt
og ok þitt jókstu þúsundfalt!
af sæluvegi sönnum villt
hinn svikna málm þú hefur gyllt,
því er þjer innra kalt!"

Því finn jeg titra hverja hjartans taug
og hrollur napur grípur merg og bein.
Jeg losna aldrei við þann stóra stein,
sem stend jeg undir frá þeim degi' eg laug;
hann lamar herðar, beygir senn mitt bak,
þó bein jeg reyni' að standa' og
harka' af mjer,
hvert einasta andartak
er örðugt, kraftur þver.

Hvað getur fyllt það rúm,
þar ríkir auðnin tóma
og rósin engin framar grær,
þar enginn glóir geisli skær
og gleðin aldrei framar nær?
Á lífið nokkra læknisdóma,
sem lina mein,
sem þagga kvein,
sem þagga þessa hljóma?

### 3. Það hyllir undir land.

Hann elskar mig, en ást hans mjer
er að eins kvöl og hugraun sár,
því langt á milli okkar er
og urðir, gljúfur, jökulgjár.

Jeg veit, að honum bý jeg böl
og brjóst hans frýs við kulda minn.
En mjer er að sjá hann sálarkvöl . . .
Ó send mjer, haustnótt, skuggann þinn

og myrkva of mitt höfuð hell
og hyl þú bæði augun mín;
jeg kýs að dvelja, er dýpst jeg fell,
í dimmu sól þars aldrei skín.

Jeg bölvun hellti' á höfuð mjer,
jeg hræðist sjálf minn eigin róm.
En það sem undir brjósti' eg ber,
það bætir, fyllir lífsins tóm.

### 4. Auðar strendur.

Sigrún kveður við barn.

Jeg hjelt, að þú fylltir upp hjarta míns tóm,
jeg hjelt, að þú yrðir mjer gleðinnar fræ,
og gæfir mjer aptur in brosandi blóm,
sem byrgð eru' und dyngjum af snæ.
Að von sú var hál,
að varð hún mjer tál,
nú verð jeg að lesa þann dóm!

Jeg les hann með skelfingu augum þjer í,
á enni þitt rún sú er skráð;
jeg svipinn *hans* þekki og sárleið hann flý,
— þá sorg getur tíminn ei máð. —
Og því ertu' ekki minn, —
hvert einasta sinn
jeg augunum skelfd frá þjer sný.

Það var djúpt millum okkar, en dýpra' er
það nú,
og það djúp, — það er kaldara' en fyr:

enginn ástneisti hlýr, engin tryggð, engin trú,
ekkert traust, enginn leiðandi byr!
Og þá sárveiku taug,
er jeg sjálf að mjer laug,
að oss samtengdi, slitið gazt þú!

### 5. Stríð.

Jeg get ekki hatað mitt hold og blóð,
en hjer verður illt að rata;
mjer er sem jeg gangi opna glóð, —
það eru' *augun hans*, sem jeg hata.

Er barnið grátandi brjóst mitt við
sig byrgir og ómálga hjalar,
þá skerst jeg í hjarta' og finn minn frið
á fárvaldi dýpstu kvalar.

Tvö öfl í brjóstinu' eg berjast finn
með banvænum skeytum sárum;
þá deyja orð mín við æsinginn
og augun mín drukkna' í tárum.

---

III.

## Útlæg ást.

Í stofunni í Hvammi' er hljótt um kvöld
og hálfrökkrið smeygir sjer inn.
Við saumaborð kringlótt situr á stól
hún Sigrún og styður hönd und kinn.
Og drengurinn hennar við stólbakið stígur; —
— hún starir á húmið, sem yfir sígur.

Og þar situr unglingur henni hjá, —
í hálfbirtu augun hans skína;
þau tala svo hljótt,
þau anda svo ótt
og orðin á vörunum týnast og dvína . . .
þeim er eilífð sú þögn; út í bláinn þau
blína.

Og barnið hjalar. — Hún hrökkur við, —
það hristist stóllinn, á gólfið það fellur.
— Og gráthljóð í stofunni gellur. —
Úr stofu það ber hún
og burt með það fer hún.
Hún lítur í augu þess, brjóst hennar
bólgnar og svellur.

* *
*

Svo gengur hún heldur hraðstíg inn,
hlymur í gólfinu', er niður hún stígur,
við fóttak sitt saman hún hrökkur og
hnígur
í faðm hans ..... Og hægar og hægar
sígur
húmið yfir með friðinn sinn. . . . .
. . . . . . . . . . . . . . . .
Ekkert orð, ekkert andvarp, — svo eilíf-
hljótt!
Ekkert hvískur, nei, grafþögn og kyrrð!
hönd í hönd!
kinn við kinn!
brjóst við brjóst!
En hver hugsun var fjötruð í böndum
og byrgð
og bærði' ekki' á sjer held'r en eygló um
nótt,
er í skínandi bárusæng blundar hún rótt.

Jeg þori' ekki' að líða' í anda þar inn
og yrkja þar ljóðin mín!
Jeg ef til vill trufla þau, óró þar veld,
er yrki' eg, við hljóðfallið vakna þau
skelfd
og koma til sjálfra sín.
Jeg hvorki vil slökkva nje æsa þinn
eld,

ást, eða brjótast í helgidóm þinn!
Í kvöld þína nálægð jeg fullvel finn,
og friðinn þinn — *að jeg held*!

* *
*

Um nóttina uppi Sigrún sat
í sænginni' og barninu vaggaði' í ró.
Hún kvað við það „korriró!“
En þrútið var augað og bólgin brún, —
í birtuna' á súðinni starði hún
af ljósinu daufa, er lýst ei gat
í lófa' hennar skaparún.
Hún stundi við: „Blundaðu, blundaðu'
í ró,
barn“ ... Hún kvað ekki meira,
hvort sem hún hugsaði fleira.
Hárið frá augum sjer glóbjart hún dró.
Og ljósið á lampanum dó. —
Hún kvað enn þá „korríró!“

### Vísur Sigrúnar.

Nú vakir aptur ástin mín,
er áður hugði' eg dána,
En ekkert ljós mjer lengur skín,
mín lífs-svell aldrei þána.

Jeg grúfði mig við hjarta hans
og hugurinn öllu gleymdi,
er hjartans eldur elskandans
um æðar mínar streymdi.

Svo lengi ástin sæla svaf
í sálu minni' í leynum.
En blundi' er var hún vakin af,
þá varð hún: *ást í meinum.*

Nú er hún voldug, öflug, há
og ekki tál og draumur.
En fram að gröf mjer flýtir sá
hinn fagri', en þungi straumur.

En augun *þín* ef hefði hann
og hreina svipinn bjarta,
hve sæl jeg legði sveininn þann
að sinnar móður hjarta!

## IV.

## Refsidómar.

Á *Duná* reið maður á dökkrauðum fák.
— Það dró yfir himininn bjarta rák
og bar yfir bæinn í Hvammi.
Þar hrapaði stjarna' á himni ein,
Á hrímhvíta svellbólstra máninn skein
svo dauflega' í dalnum frammi.

Á skörinni stundarkorn stað hann nam
og starði þegjandi' á ána fram:
„Mun Sigrún í kvöld mín sakna,
þó komi jeg ekki' að Hvammi heim, —
mun hljóðara verða' yfir stöðvum þeim,
við hneggið í Hrana' er þau vakna?

En jeg verð að fara, já, fara minn veg, —
svo fárlegum ósköpum valdið hef jeg
og bróður minn sorglega svikið,
því ástin til konu hans rændi mig ró, —
sú raun, er mig hingað að vökinni dró,
jeg braut, ó, svo mikið, mikið!“

Hann reið fram á skörina, — skeifa við svell
þá skall, — og í hylinn af baki' hann fjell.

Og bassann sinn straumurinn buldi.
En næsta dag Sigrún í stofunni stóð
og studdist við dálítið saumaborð hljóð
og augun með hendinni huldi
og hjartasorg þunga duldi.

### Vísur Sigrúnar.

Hann var mjer allt, hann var mitt ljós
á vori ástarinnar;
hve blessað ljósið brotnar skært
í brotum sálar minnar!

Svo fór mín *fyrsta* og *eina* ást,
— því ekki' um drauma' eg tala; —
í syndum fædd í sorg hún dó,
og sælu' hún olli' og kvala!

Jeg sje hann aldrei, aldrei hjer,
en ekki' um slíkt við tölum:
jeg sje um alla eilífð hann
þar uppi' i guðs míns sölum!

---

Svo liðu nú stundir, og Sigrún ól svein. —
„Sjá vil jeg augun hans!“ kvað hún.
Hún leit í þau, gleðin á hvörmum hennar
skein,

það hýrnaði svipurinn, ástin hrein
í augum hennar glóði. Og guðs síns til
með grátandi augum bað hún.

Og enn liðu stundir: hinn eldri sveinn
á árinu þriðja dó,
í heilanum sjúkdóm hann hafði þann,
til heljar er loks hann dró.
Um orsök hans vissi enginn neitt, —
það ætlaði læknirinn
af byltu væri. — Þa blikuðu tár
á bleikfölri móðurkinn.

Svo liðu árin. Og Eirík dró
illkynjuð sótt til bana.
En sagt var, að ekkjan syrgði' hann mjög
og sorgirnar þreyttu hana.
Það gránuðu hárin, hvítnaði kinn
og hrukkur á ennið dró.
En öllum hún huldi hjarta sitt.
— Í Hvammi sem ekkja' hún bjó.

### Vísur Sigrúnar.

Nú skil jeg það fyrst, hvað jeg sárt hef
hann sært,
er sjálf hef jeg lært
að þekkja, hvað indælt er ástar að njóta,

Jeg hef eitrað líf hans og lagt hann í gröf,
hans ljúfa ást var mjer hefndargjöf.
— Það var synd, það var synd þau blóm
að brjóta,
en jeg braut þau, og fleira', er mjer helzt
skyldi kært.
Og nú finnst mjer sálin hans hefndum mjer
hóta,
í harmtárum augu mín fljóta.

Nei, hún kallar ei hefnd yfir höfuð mitt,
því hún hefur elskað mig.
Það getur hún eigi', en mín eigin sál
með ásökun kvelur sig
og leggur á herðar mjer harðan dóm.
Hún biður ei hefndar, hún biður um grið,
hún biður um miskunn og frið!
En sjálfa sig aldrei hún sættist við
fram að síðasta lúðurhljóm!

---

## V.

## Sólarlagið.

Um sumarkvöld einn sunnudag,
er sólin rann í heiði
og blærinn kvað sitt ljúflings-lag
og lóan söng á meiði, —

og blánaði dalurinn breiði, —
hún sat við gluggann. Sveinninn ljek
að sumarblómum smáum;
þar drekkti' hún sinni sáru kvöl,
þar sefaði' hún sitt leynda böl
í barnsins augum bláum. —
Hún starði lengi, lengi' í þaug. —
Svo leit hún út um gluggann
og sá, hvar blóðrauð sólin rann
og síðsti geisli' á tindum brann,
og sá, hvar litli fuglinn flaug
í fjalla bláan skuggann.

Hún þóttist heyra hóað snjallt
í háa fjallasalnum.
Svo sýndist henni hálfdimmt allt
og hljótt þar niðri' í dalnum.
Þá heyrði' hún sönginn hlíðum í, —
hún heyrði Dunár nið og gný,
og svein hún sá
með bjarta brá
þar byltast lík í kaldri á.
Tvö augu sá hún undarleg
og eitthvað heyrði' hún falla.
Hún kenndi hita, en hrolls um leið. —
Þá heyrði' hún rödd, er sárt var þreyð,
svo ástblítt á sig kalla.

Hún heyrði óm
af orgel·hljóm
og inn í kyrkju sá hún.
Hún heyrði einhvern hvellan klið,
og háaltarið kraup hún við.
Og Kristur stóð við hennar hlið
og hendi' að augum brá hún.
Svo alvarleg var ásýnd hans,
en ástmild þó, og geislakrans
um fagra lokka frelsarans
þar fjell, — við brjóst hans lá hún . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . .

Og sumarnóttin kom hæg og hljóð . . .
Við hlið hennar drengurinn litli stóð,
og fólk var í stofunni frammi.
Og nú var hún færð í hvítan hjúp,
— þau horfðu' á það forviða, barnsaugun djúp. —
Hún var sofnuð, hún Sigrún í Hvammi!

# Ísland.

I.

Vjer elskum þig, landið, þars allt það er
geymt,
sem eigum vjer kærast og dýrast!
Frá þjer hefur kraptur og þrek til vor
streymt
og þú hefur brosað oss hýrast,
þó sízt beri' að neita, að særst höfum vjer,
— já, sorglega stundum, — við brjóstin á
þjer.

Vjer elskum þær grafir, er geymir þitt
skaut,
þó grátdögg þar opt hljóti' að falla;
vjer elskum hvern bala þinn, læk þinn og
laut
og ljósálfa þína' upp til fjalla.
— Þó stundum við hjarta þitt kalt höfum
kennt,
á kærleikans lífmagn oss fyrst var þar bent.

Vjer elskum þitt brosandi, ógnandi haf,
sem ymur við klettanna rætur,
og friðinn og blæinn, sem fróun oss gaf
við faðm þinn um heiðríkar nætur,
þótt andvakan stundum oss yrði þar löng,
og einstigin reyndust oss torfær og þröng.

Að segja', að vjer elskum þig, *Ísland*, er synd,
ef ekki það sýnum í verki;
á sannleikans blátæru, blikandi lind
því bergjum og grípum þitt merki,
og berum það djarflega' af drengskap og trygð,
— þann dag verður ljós yfir auðnum og bygð!

II.

Ljós á brá og brosleit
í brimsæng upp hún rís, —
blikar ljómi' og leikur
um ljúfa sævardís;
blær og kvikar bárur
hinn bjarta kyssa háls, —
höfuð sitt hún hefur
til himins ung og frjáls.

Sæl í unnum svölum
hún svanhvít laugar brjóst
hjúpuð hálf í djúpi,
en hárið mjúkt og ljóst
glöð á vogi' hún greiðir,
er glaðkvik norðurljós
binda bjarta linda
um brjóst á ljósri drós.

Lengi sætt hún syngur
í sumar-nætur frið,
sögur stjörnum segir,
en særinn glúpnar við; —
tárin titra' á bárum,
er töfra lögin sín
kveður hún, en hljóður
á hana máninn skín.

Henni' af alhug unnum:
hún er *vor festarmey*!
fastar ástbönd festum,
svo fái brostið ei!
Líf að enda' er ljúfast,
ef lokar' hún vorum hvarm', —
ljúf er æ vor æfi
við *Ísafoldar* barm!

---

## Á Þingvöllum.

**Sungið við vígslu gistihússins „Valhöll“.**

Mörgum heitt um hjartarætur
hefur orðið, fósturgrund,
bæði' um daga' og bjartar nætur
brjóst þitt við á margri stund!
Þó mun heitast hafa runnið
hjer til skyldu sona blóð,
þar sem hraun og hjörtun brunnið
hafa fyrr í sterkri glóð.

Hjer er Íslands hjartastaður,
hjer er allt, sem lyptir oss;
hjerna lærði margur maður
málið bezt af dyn í foss;
hlýð á óm hans, útlendingur,
ef þú skyldir koma hjer, —
drápu' um frelsi' og dáð hann syngur.
— Drag þú skó af fótum þjer!

Því að hjer í helgum sölum
hafa guðir sjálfir vörð,
leika sjer í lautum, bölum
ljósálfar á helgri jörð; —
hjeðan útlent yfirlæti
útlægt skal og borga-prjál,

hrokafull á höllum fæti
hjer skal líðast engin sál!

Fyrir þá, sem þekkjast vilja
það hið smáa', er hús vort reist.
Þeir, sem reyna' að þekkja' og skilja
þjóðlíf vort, því geta treyst,
að þeir hjerna hæli finna
hlýtt og gott, þó lágt það sje,
þar sem Ísland sona sinna
syrgir fallin heilög vje.

Hjer skal bjartur roði risa
röðli frá við austur-tjöld;
hjerna skulu ljósin lýsa
landi' og þjóð á nýrri öld.
Og ef sverfa forlög fast að,
fjendur vilja landið hrjá,
hjer skal tening hinnstum kastað,
hlaupið yfir risa-gjá.

* * *

Hömrum leikur eldur yfir, —
óðum þoka' af hnúkum flýr; —
geisli vakir, ljómar, lifir,
lýsir, vermir, — sterkur, *nýr!*
Kenni' eg gjörla krapta nýja,

koma *menn* í *svipa* stað; —
röðlar brosa' í rofum skýja,
rignir ljósi, — út í það!

---

## Reykjavík.

**Á Þjóðminningardaginn 1898.**

---

**Lag eptir Helga Helgason.**

*Reykjavík*, maklega má
þín minnast á fagnaðarstundu,
löngum þó fremur en lof
last hafi um þig verið sagt!

Satt er það, sárt er það víst,
hvað sárfáir erum og snauðir.
— Kvíðum ei komandi tíð:
kemur með þekkingu vald!

Aldrei því útbyrðis skal
oss örbirgðin kasta, því betur
aflvöðvar stælast við stríð,
— stríðið, það eykur vort þrek.

Satt er, að hjer eru holt
og hrjóstrugt, en þó er hjer fagurt:
brosir við blágrýti rós,
blasa við ljómandi tún.

Aldrei jeg sólarlag sá
um sumarkvöld fegurra' en hjerna,
þegar í lognblíðu ljek
ljómi' yfir vogum og hlíð.

Sett hefur sólgyðjan tjöld
í sumar á *Skarðsheiðar*-tindum,
*Esjuna* hýrbrosa hún
hjúpar í purpura-lín.

Þaðan um lopt, yfir lög
hún ljettfleygu geislana sendir
til þess að vekja í *Vík*
vonirnar góðu hjá oss.

Úti við *Arnarhól* slær
á öldunum ljósbláu, kviku
hörpuna hafmær og skært
hljóma þar ljóðin í dag.

Leika sjer ljósálfar glatt
og ljettstigir danza og hlaupa
niður við *tjörn* yfir tún
til þess að glæða vort líf.

Vaki þá *Víkverjar* nú! —
til vor er nú geislunum snúið.
Strengjum þess hugglaðir heit
heill þína' að efla, vor bær!

Vor er þín framtíð og vor
er vegur þinn, — aldrei því gleymum,
þjer ef að búum vjer böl,
búum vjer oss það um leið!

Reykjavík, rísi þín frægð
við röðulskin komandi tíma!
Menntun og manndáð og vit
merki þitt beri sem hæst!

---

## Í Dýrafjarðarmynni.

Brunar gnoðin,
gufu knúin,
inn á djúpan
*Dýrafjörðinn.*
Hve sælt er um kvöld, þegar sól er að hníga,
að sigla' í lognkyrrð um rennsljetta voga,
sjá hafmeyjar ungar úr hafdjúpum stíga
og hár þeirra glóbjart í kvöldbliki loga!

Hjúpar hlíðar
himin-roði, —
kveður sól
með kossi fjöllin.

Sjá, kvöldreyki leggur í lopt upp úr dölum
og linda þeir fljetta um gnæfandi hnúka,
er faðminn sinn breiða mót fjallvindum
svölum,
sem flugljettir, hlæjandi' um vanga þeim
strjúka.

Fram með hamra-
hlíðum skeiðin
ber mig, ber mig, —
bárur þegja.
Jeg heyri þó andvarp úr hyldjúpum köldum,—
æ, hafmeyjar rotaðrar skipskili undir!
Hún gígju slær síðast und úrsvölum öldum,
unz aflvana sleppa' henni loks hennar
mundir.

Hamrar, hamrar,
hlíðin græna
undir breiðum
beltum kletta!
ó, hversu í sali' yðar glaður jeg gengi,
er gullroði leikur um hamranna tjöldin,
já, þar skyldi' eg una og leika mjer lengi
við ljósálfa brosandi' um miðsumar-
kvöldin!

Og er flygi
fley um voga,
eins og nú,
á aptni kyrrum,
þá glymdi mín ljóðgígja' í hamrinum háa
og hjarta hvers sæfara' að berginu drægi,
þá tækju' undir hafgúa' og hafaldan bláa,
við hlið mína álfamær gullhörpu slæi.

Og er af þiljum
þögul renndi
augum mær
upp til hlíða,
mín ljóð henni skyldu frá hömrunum hljóma,
í hjarta' hennar vekja' aptur bernskunnar friðinn,
þó skildi' hún ef til vill ei alveg þá óma,
er ómuðu hlýtt gegnum sægolu niðinn.

Hulda, Hulda,
hörpu sláðu,
seið mig heim
í sali þína!
því hjer vildi' eg kjósa til heimsslita' að una,
og hlusta' á, hvað deyjandi öldurnar segja

og horfa' á er eimskip af hafinu bruna,
með hrönnunum brosandi' að lokunum
deyja.

---

## Á Breiðafirði.

Blasa við á *Breiðafirði*
blómgar eyjar gyrtar sænum;
Nú er unun uppi' á þiljum
úti' að standa' í sumarblænum.

Særinn gárast, logheit laugar
ljós-armana sól í öldum.
Vjelin kveður: „La-la, la-la!“
„*Laura*“ á bárum vaggast köldum.

Nú er mjer skemmt að skoða' í fjarlægð
skína' á fjöllum aptanroða,
helgibjarma' of höfði þinu,
*Helgafellið Snorra goða!*

Heill sje yður, hjeruð *Gellis!*
Heill þjer *Steinþórs* byggðin fræga!
Hnigi' á yður himindaggir,
hljótið gróða' og búsæld næga.

Nú eru' horfnar heiðnar vættir,
hniginn gamli *Bægifótur;*
gengur ei með grenji mót oss
graðungur á sæinn ljótur.

*Fróðár*-undrin óttalegu
ógna mjer ei þessu sinni;
hjerna' í ró, er rennur gnoðin,
reyki jeg úr pípu minni.

Hugsun truflast, hendingarnar
hverfa allar burtu frá mjer,
sveipar þoka sæ og fjöllin,
„súrrar" allt í hausnum á mjer:

Stúlkurnar í *Stykkishólmi*
standa mjer fyrir hugskotssjónum,
þær mjer kveiktu bál í brjósti,
bjartari Íslands vetrarsnjónum.

---

## Haustkvöld á Reykhólum.

„Ó, fögur ertu, fósturjörð!" hann sagði,
er fegurst hefur sungið lof um þig,
jeg fann, að satt hann sagði' á augabragði,
er sól þín, ættjörð, hjerna skein á mig!

Jeg fann sem hann, að hjerna' er yndi' að
sjá þig,
er hafið roða loggyllt aptanský.
Jeg tel mjer heiður mestan, að jeg á þig
að ættarjörð, — jeg stæri mig af því.

Og nú er einmitt aptansól að hníga
í ægisdjúpin til að lauga sig.
Og yzt við hafsbrún gullnir geislar stíga
og gylltum rósum skreyta bárustig;
það eru, glóeyg, ennisgeislar þínir,
þú eilíf-bjarta drottning himingeims, —
hinn eilíf-sami æskuljómi krýnir
þig, aldna, reginvakta ljósið heims!

Nú sefur vært sem barn hjá móðurbarmi
hver bára þín, ó sær, á skauti þjer,
og gullnum baugum búnum, ljósum armi
að brjósti þjer þú leggur sjerhvert sker!
Það hvílir friður eyjum þínum yfir
og yfir vogum friðarbogi skín; —
hver hafmey, sem í sölum þínum lifir,
nú syngur fögur hörpu-ljóð til þín!

En þó er eins og undir *Skorarhlíðum*
þjer órótt sje og stynji bára þín,
og sog úr hvelfdum höllum þínum tíðum

þar heyrast, einkum sólarljós er dvín;
þar sýta' og gráta bárur *Eggert* ungan,
sem áður þar í faðmi þeirra dó, —
já, síðan stynur *Ægir* þar svo þungan,
þó þögul búi annars staðar ró.

Og þú, sem sveiptur guðaloga gnæfir,
þú gamli *Snæfells-ás*, við sædjúp blá,
jeg á ei ljóð, sem hátign þinni hæfir,
jeg hef ei orð, sem nú þjer lýsa má!
Með tignarsvipinn, töframagnið, ljómann,
þú traustur gnæfir hátt við sólarstig, —
en mestan og þjer sólin veitir sómann,
því síðast, blíðast allra' hún kveður þig.

En sólarkossar, sólbros þig ei veikja,
þú samur ert, svo sterkur, bjartur, frjáls,
og ekki hjá þjer ástarljós mun kveykja,
þótt arma bjarta sól þjer leggi' um háls;
þú stendur enn sem Íslands frelsis vörður,
sem áður fyrr og þokar hvergi' um fet;
þú ert sem fögur fyrirmynd oss gjörður,
á fegri neina aðra' ei bent jeg get.

Og ótal reykir heima rjett við *hólinn*
frá hverum stíga' í sælli aptankyrrð;
á túnin fögru, fjallið, álfabólin,

slær fögrum roða', er sól er öldum byrgð.
En lengra burtu' í fjarlægð fossinn kveður
svo fagurt, sterkt, en hreimþýtt töfralag.
— Jeg finn, hve hjartað fjörgar hjer og
gleður,
ó, fósturjörð, þín hátign sjerhvern dag!

---

## Knafahólar.

Þeir gnæfa völlunum aldnir á,
þar augað lítur ei nokkurt strá
en rjúkandi svarta sanda;
þar hvíslar golan um hetjuöld
og horfnu frægðina sjerhvert kvöld
og hrífur minn unga anda.

Jeg heyri fótdyn af fráum jó
og friður virðist mjer hverfa' og ró, —
nú uggir mig atför fjanda; —
í fjarlægð heyri jeg hjörva-gný, —
sem himinstjörnur við næturský
við lopt sje jeg blika branda.

Og *Gunnar* þykist jeg geystan sjá
með geirnum vargana ólma hrjá,

á eggjum hans leiptur loga;
það brennur eldur úr augum hans
og örfar þjóta sem hugur manns,
er bendir hann traustan boga.

En burt er skóganna skrautið allt, —
nú skefur roksanda náttkul svalt;
jeg þykist samt þarna líta,
hvar milli skóggreina skín á hjör
og skati vígbúinn hvatar för
og hverfur á fáknum hvíta.

Og gegnum kvöldgolu ljóðin löng
og langan, drynjandi atgeirs-söng
í eyrum mjer ómar láta
frá svipum fornum, er sveima þar
um sandana dökkva' um næturnar
og hetjufrægð horfna gráta.

* * *

Er tunglskin hrímgaða glitar grund
og gustar af norðri' um aptanstund
á söndum hin svala gjóla,
þá fljúga minningar fornaldar
og fegurstu hetju-sögurnar
í hug mjer við *Knafahóla.*

---

## Árbæjarfoss.

Mig langar opt, er ársól fögur skín,
að enn þá mætti' eg heyra ljóðin þín
og, kæri foss minn, sæll þar svala mjer,
er sat jeg forðum hugfanginn af þjer!

Og heyra blíða ljúflingslagið þitt,
það ljóð, er nam í æsku hjartað mitt,
og liggja þar og laugast úðanum
í litla, fagurgræna hvamminum.

Og sjá þar ljósa dís míns æskudraums,
— í djúpi býr hún *Rangár* svala straums, —
er blæjur þínar gægist hún í gegn,
af gullnum lokkum drýpur krystalls-regn.

Og gegnum fossinn blika augun blá,
og bliktár falla ljósum hvörmum frá;
í svip hún birtist, sígur ljósfaldin
á samri stund í kalda faðminn þinn.

Jeg hugsa' í fjarlægð, fossinn minn, til þín, —
mjer finnst svo opt, er daprast gleðin mín,
að hjá þjer sitji' eg, heyri sönginn þinn,
þá huggast jeg við gamla niðinn minn.

## „Inn að Barkarstöðum.“

Ef jeg er þreyttur, hryggur hugurinn
og hvíldar sællar leitar andi minn,
þá vil jeg helzt með vinum ríða glöðum
um vordag ljósan inn að *Barkarstöðum.*

Og þegar blómin vakna’ af svefni væn
og verða engin dökkbrún fagurgræn,
und „hríslunni“ að húsabaki sitja
jeg helzt mjer kýs og vorljóð sólu flytja

Þar get jeg setið, setið endalaust
og sæla hlýtt á náttúrunnar raust
og hlustað þar á hljóminn vorfuglanna
og hlustað þar á kvæðin fjall-lindanna.

Þar gleður mig hinn heiði himininn,
er hug og vilja stælir jökullinn, —
mig hressir blærinn, hvílir þessi friður,
með hverjum geisla’ er til mín stígur
niður.

## Djúpivogur.

Lýsir Ránar rósa höll
rauður vafurlogi;
sofa jóðin Ægis öll
inni' á *Djúpavogi.*

Skín á húsþök strjál við strönd,
stíga' upp reykir bláir;
rjetta gestum hlýja hönd
háir jafnt sem lágir.

Þar er fögur fjallasýn,
fannskrúð efst á tindum:
sól á hvíta skjöldu skín,
skreytta ýmsum myndum.

Hallast blóm að berum stein,
brosir laut við dröngum:
líf og dauði eiga þar ein
armlög saman löngum.

Senn er komið sólarlag,
á sænum ljósin dvína;
nú fer Hulda ljúflingslag
að leika' á gígju sína.

Fagran ársal á hún sjer
inni' í hamrastöllum,

en enginn mennskra manna sjer
meyna fegri öllum.

Jeg hef ei tóm að hlusta' á þig,
Hulda', að þessu sinni, —
nú skal báran bera mig
burt úr augsýn þinni.

---

## Þingsetning í Áradal.

Mjer í kvöld jeg skemmta skal,
— skammt mun góðs að bíða —;
ofan í hann *Áradal*
ætla jeg að ríða

Glymur foss í gljúfri forn,
glottir, otar skalla.
Teygir máninn hrímbleik horn
hærra tindum fjalla.

Yfir fornar fjallskriður
fálma vofur bleikar;
keyra ganda kvöldriður,
kynja- byrja leikar.

Draugar, álfar, djöflar, tröll
danza fram við sjóinn,

sem þau væru vitlaus öll,
vaða' í kálfa snjóinn.

Til að skemmta skottunum,
er skálma' um fjörusandinn,
kveðast á með ósköpum
Urðarmáni' og Fjandinn.

Hátt þeir kveða klám og níð,
— Kölski hristir skottið;
dregur' á varir drauga lýð
djöfullega glottið.

Sönglar napur nágustur
núna' í beinum fúnum,
hálfrotnaðar hauskúpur
hleypa morknum brúnum.

Hvolft er glyrnum glóðrauðum,
glórir í loga bláa,
ýskrar í skoltum ormjetnum,
ygld er nösin fláa.

Álfur drísildjöful við
danzar á öðrum fæti,
situr skessa' á hvora hlið,
hlær af ofsa-kæti.

Móri' og skotta skammast þar,
sköllum berja saman
skrattanum til skemmtunar
skömm er það og gaman.

Púkar raula rímur lágt,
rýkur úr hvoptum svæla,
allt í kringum ýlfra hátt
útburðir og væla.

Galdranornir grimmlegar
ganga' úr *Tröllafossi*,
heilsa flegður fláráðar
fjandanum með kossi

Vatnaskratti' og skrýmsli ljót
skríða' að alla vega;
eiga þau hjer við ára mót
ekki frýnilega.

Slær um Kölska hyskið hring,
— hann hefur nóg fyrir stafni —.
Setur drauga- og djöfla-þing
djöfsi' í sínu nafni.

En svo þú ekki ærir mig,
illra vætta skari,

ef jeg hjerna hlusta' á þig,
heim er bezt jeg fari.

---

## Kyrkjuhvoll.

(Lag eptir sjera **Bjarna Þorsteinsson**).

Hún amma mín það sagði mjer: „Um sólarlagsbil
á sunnudögum gakk þú ei *Kyrkjuhvols* til!
Þú mátt ei trufla aptansöng álfanna þar, —
þeir eiga kyrkju' í hvolnum, og barn er jeg var,
í hvolnum kvað við samhljómur klukknanna á kvöldin."

Hún trúði þessu', hún amma mín, — jeg efaði' ei það,
að allt væri rjett, er hún sagði' um þann stað;
jeg leit því jafnan hvolsins með lotningu til, —
jeg ljek mjer þar ei nærri um sólarlagsbil:
jeg þóttist heyra samhljóminn klukknanna á kvöldin.

En forvitnin með aldrinum þó óx svo mjer
hjá
og einhver kynleg löngun og brennandi
þrá; —
á sumarkvöldi björtu um sólarlagsbil
á sunnudegi Kyrkjuhvols jeg reikaði til.
— Í hvolnum glymur samhljómur klukkn-
anna á kvöldin.

Og er jeg þar hjá hvolnum stóð við hamr-
anna göng,
jeg heyra þóttist kynlegan, ómfagran söng.
Oy yfir öllum hvolnum og hæðunum þar
helgiblær og dularró svo undarleg var.
— Í hvolnum gl. samhlj. kl. á kv.

Jeg stóð sem elding lostinn þar, jeg starði
hvolinn á,
þar stóðu dyrnar opnar, í björgin jeg sá;
þar glöptu ljósin sjónir með geislanna blik, —
jeg guðshús sá þar opið; — það kom á mig
hik:
jeg þóttist heyra samhlj. kl. á kv.

Og dýrðleg var hún, kyrkjan sú, — á
sveimi jeg sá
þar svífa álfa ljósklædda' um gólf til og frá,
og öldung sá jeg standa þar altarið við,

en allt í þoku' eg sá það, — jeg heyrði
sífellt klið
af þung-glymjandi samhlj. kl. á kv.

Og konu sá jeg hvítklædda við kyrkjunnar
dyr,
— þá kaldur greip mig hrollur, er þekkti
jeg ei fyrr;
hún varir að eins bærði og benti mjer frá
með björtum gullinsprota og ljómi skein af
brá,
og allt af kvað við samhlj. kl. á kv.

En óttablandna lotning mjer innra' eg fann
hjá
og eins og leiðslu fanginn gekk jeg Kyrkju-
hvol frá:
mjer fannst jeg brotizt hafa í helgidóm
inn, —
mjer hvellur kvað í eyrum með töfrahljóm
sinn
hinn undarlegi samhlj. kl. á kv.

* * *

Er aptanblikið sveipar fjöll um sólarlagsbil
á sunnudögum gakk þú ei Kyrkjuhvols til:
þú verður aldrei samur og áður, alla stund

í eyrum þjer mun gjalla fram að síðasta blund
hinn undarlegi samhljómur klukknanna á kvöldin!

---

## Sæþrá.

Nú sje jeg ykkur aptur, fjöllin mín,
þið eruð söm með snæ á tindum háum,
og sólin frjáls á faldinn ykkar skín
og fannabeltin ljós í hlíðum bláum.

Og enn þú, foss, í gljúfri glymur hátt
svo gnata veggir þinna bjargasala,
þar sofna blóm við Huldu hörpuslátt
og hníga þínir ljósálfar í dvala.

Og gul af sóley söm er brekkan mín
og sami niðri' á eyrum fuglakliður,
þar *Rangá* gamla raular ljóðin sín
og rífur græna bakka' í farveg niður.

Jeg kannast hjer við hverja rödd og mynd
og hjá mjer æskuminningarnar vakna;

með ólund hjerna' að vera væri synd, —
jeg verð samt nokkurs ósjálfrátt að sakna:

Jeg sakna þín, þú breiða, bjarta haf! —
við brjóst þín hvelfd mjer langbezt mundi'
eg una:
það lífgar mig, það löngum þrek mjer gaf,
er löðrið þitt að klöppum sá jeg þruna.

Þú gjörvalls heimsins syngur söguljóð
í svarri þinni' og brimdrununum þungu,
og lífsins dimma, dularfulla óð
jeg dag hvern heyri óma' á þinni tungu.

Jeg elska þig, jeg sakna þín, ó sær!
— Jeg sá hjá þjer þær beztu stundir
mínar;
hjá þjer er svefninn sætur, ljúfur, vær,
og sæl er vakan út við strendur þínar.

## Heim til fjalla!

:,: Heim til fjalla! :,:
Þar und háum hamrasölum
heiðblá fjólan grær í dölum,
fossar duna, lítil lóa
ljóð sín kveður út um móa;
ungur fyrst þar sá jeg sól
sunnan undir grænum hól.

:,: Heim til fjalla! :,:
þar sem dísir danza' um nætur,
daggartárum himinn grætur,
lækir falla' af fjallsbrún niður,
fyllir loptið þrasta kliður. —
Hinnst jeg þar vil sólu sjá
sem jeg barn í vöggu lá.

:,: Heim til fjalla! :,:
þar sem golan blómin bærir,
birkirunninn lága hrærir,
þar sem svanasöngvar hljóma,
svanavængir hvítir ljóma, —
þar á vorin varði' eg tún,
vakti einn á heiðarbrún.

:,: Heim til fjalla! :,:
þar sem bleikhvít bæjarþilin

ber i dökku fjallagilin, —
grær á veggjum baldursbráin,
blá við túnið rennur áin; —
opt hún mamma mig þar bar
meðan lítið barn jeg var.

:,: Heim til fjalla! :,:
þar á mærin hýra heima,
hún, sem jeg skal aldrei gleyma, —
lokkar hrynja' um hálsinn bjarta,
hafdjúpt tindrar augað svarta.
„Jeg get“, segir' hún, „sorgir stytt,
sjáðu: *jeg* er hjartað þitt!“

:,: Heim til fjalla! :,:
þar sem ró er öllu yfir,
ástin hreina' í brjóstum lifir;
fjöllin beina hug til hæða,
hjörtun lífga, fegurð glæða;
æskugleðin aldrei dvín
upp við blessuð fjöllin mín!

## Svava.

### I.

### Á GRANDANUM.

Við gengum alein, góða mín,
  í gærkvöld fram á nes.
Við gengum suður' eptir grandanum,
  en - gustur af hafi bljes.

Svalur gustur frá sænum bljes. —
  Við sögðum hvort öðru margt,
já, okkar leyndustu einkamál,
  en — úti var myrkt og svart.

Og einhvern veginn ósjálfrátt
  augu' okkar mættust þar, —
það mættist fleira: hjörtun heit,
  hendur og — varirnar!

Við vorum sæl, þótt vantaði' á,
  að væri' okkur báðum rótt:
gusturinn bljes á grandanum
  og geigvæn og köld var nótt.

Fram undan köld og koldimm nótt!
  — — — þar kyssti' eg þig undir steini.
— Sú ást er sælust, en sárust þó,
  er sálirnar njóta' í leyni,
og — æ! — sem er öðrum að meini!

## II.

### Á HÓLNUM.

Í lyngrunnum þaut, er við leiddumst þar
  úr lautinni upp á hólinn.
Á barðinu grjetu gulltoppar,
í gaupnir sjer horfðu sóleyjar.
  Og sigin var blessuð sólin.

Þar hvort að öðru í ástúð laut,
  en orðin varð þungt að finna.
Við óskuðum okkur bæði braut, —
á burtu saman, — en hvert? — — Jeg
                                        flaut
  í ljósbylgjum lokka þinna.

Við settumst þar niður, brjóst við brjóst,
og brostum með tár í augum.
Og barmur þinn svall og saman drógst.
—Hve svipfögur varstu, ennið ljóst
og heiði' yfir brúna-baugum!

Það lagðist í mig, að okkar sú
yrði hin hinnsta gangan;
jeg fann það, sem komið fram er nú,
að fullsæla slík, er bjóst mjer þú,
sjer átt fær ei aldur langan.

Mjer hugboð mitt sagði: „Hinnsta sinn!“
— það heyrði' eg í lyngsins braki,
það suðaði' í fjarlægð sægnýrinn,
það sagði marbendli vogmærin
í draumi að bárubaki.

Jeg veit það og finn, að fótsspor þín
svo fjærri mjer, *Svava*, liggja!
En samt er þitt óðal sálin mín,
þar sama ljósið og forðum skín,
þar engin skal önnur byggja!

## III.

### Allt eða ekkert!

Jeg kæri mig ekkert um *ylinn* þinn, Svava,
*eldinn* þinn hafa jeg vil!
Jeg vil blossandi bálið þitt hafa,
er það brennur með glóðþrungnu eldmagni fullu,
þó það dragi mig dauða til.

Þó þú *segir*: „Jeg elska þig, elska þig heitt!“
það alls ekki fullnægir mjer;
jeg vil *finna*', að þú elskir mig, finna það, reyna það,
—jeg forðast ei ást þína: drepandi eitrið!—
Jeg vil hafa' hana alla' eða' alls ekki neitt,
ástina í brjósti þjer!

Og elskir þú mig, skal jeg höfðinu halla,
hýrbrosa Svava mín, vanga þjer að, —
á bálið þitt skal jeg, sem bjóstu mjer, stíga,
í botn teiga sætbitra eitrið og hníga
í lífsslitum hinnst þjer að hjartastað.
Með orðin á tungunni, óðinn á vörum,
sem ungur til þín jeg kvað,
skal jeg brosandi, liðinn að fótum þjer falla!

## IV.

### Um niðdimmar nætur.

Jeg sje þig um niðdimmar nætur,
er blundurinn sætur
  mjer sígur á brá,
en svo, er jeg vakna' og er þotinn á fætur,
  mjer hverfurðu frá, —
  og hvert ferðu þá?
  Ertu, Svava mín, allt af mjer ósæ hjá
  með augun þín skínandi blá,
um niðdimmar nætur?

Býr sálin þín hreina í hörpunni minni,
  er harmljóðin kveð
  jeg hafbárum deyjandi með,
sem yrkja í síðasta sinni
svanasöng ljúfan á víkinni þinni? —
Jeg þekki þín skjálfandi andvörp í óðhörpu
minni.

Lof mjer að sofa um niðdimmar nætur!
  Mjer er ljúfast að sjá
  þig sitja mjer hjá,
en sjónum mjer hverfurðu', ef rís jeg á fætur:
  Jeg skal hörpuna fyrir þig hugfanginn slá,
  — um hárið þitt bjarta, um augun þín
blá,

um ástarþrá,
um okkar snjóhvítu ástarþrá
skal jeg yrkja, Svava mín! — Hvað? Þú
grætur! —
Jeg skal yrkja' um þig sofandi' um nið-
dimmar nætur!

V.

## Lokkurinn.

Jeg lagði við smákvæði lokkinn þinn
í ljóðabókinni minni.
Það birtir í hug mjer sjerhvert sinn,
er sit jeg með bjarta hárlokkinn
og horfi' á hann, eins og ungbarn
sjúkt
í augun á móður sinni.

Jeg leik við hann enn sem jeg ljek við þitt
hár
um ljómandi maí-nætur.
Og ef til vill hrynur nú einstaka tár
ofan á hann, er mjer vöknar um brár
við minning þess liðna, — en ljóstár-
um og
þá lokkurinn bjarti grætur.

Og hjerna' eru ljóðin, sem lokkinn þinn
jeg lagði við einu sinni!
Og allt af, er horfi' eg á hárlokkinn
og hugsa' um þig, anda minn lifna jeg finn.
Um vornætur andvaka' eg les um þig ljóð
í ljóðabókinni minni!

---

## Jeg leita þín!

Jeg man þig, gil, und hamrabrúnum háum,
þar's hríslan fagra brosir sólu við,
er ástarfaðm mót himni breiðir bláum, —
þar's bergið stynur þungt við fossa-nið,
— þar sat jeg löngum grænum greinum undir,
er glaðar við mjer brostu æskustundir.

Og þangað opt í draumi sál mín svífur
og sveimar þar sem vofa' í næturkyrrð,
er að eins fossa unaðssöngur rýfur, —
og alein þar af rökkurtjöldum byrgð
hún leitar einhvers undir birkigreinum
hjá úðavotum, mosagrónum steinum.

Jeg leita þín, mitt ljós frá bernsku-árum,
jeg leita þín, — jeg vildi' eg fyndi þig! —
Jeg leita þín: í liðna tímans bárum
þú leiddir fram hjá skerjum öllum mig.
— Því bezta öllu', er á jeg mjer í hjarta,
þú í það sáðir forðum, mærin bjarta!

Jeg leita þín und grænna greina þaki
við gilið, þar við forðum sátum ein,
er sólin himnesk hvarf að fjallabaki
og hörpur álfar knúðu' í gráum stein.
— Mjer finnst um brjóst mitt flögra lokk-
ar þínir,
við faðmlög brennheit sofna harmar mínir.

Jeg leita þín á meðal nætur-mynda
í mánaskini' um haustkvöld draumarótt.
Og kveðju til þín bera bið jeg vinda
og biðja þig að koma til mín skjótt.
Jeg kalla' og spyr, hvort andar gilsins eigi
mjer um þig neitt í draumi segja megi.

Og óljós draummynd, — eins og þoku hul-
in —,
sem á þig minnir, hvarflar opt til mín,
er hvíli' eg nætur dökkblæjunum dulinn
í draumi' og stjarnan björt í vestri skín.

Og aptur þá jeg friðinn finn hinn bjarta,
sem forðum djúpt þú þrýstir mjer að hjarta!

---

## Au revoir!

Er líður að hausti og laufin á björk
jeg liggja sje fölnuð og visnuð á mörk,
og blómkrónur bliknaðar allar. —
þá hlýt jeg að kveðja þig, hverfa þjer frá,
að hafinu vestur með ljóskrýnda brá,
því klukkan í skólanum kallar!

En aptur að vori jeg vitja' á þinn fund,
frá vogunum bláu að fjallanna grund
af huganum hálfa leið borinn.
Þá tölum við aptur um æskunnar frið
og allt það, í vetur er reynt höfum við,
svo fjörglöð sem fuglar á vorin!

---

## Jeg dvel hjá þjer!

Jeg dvel hjá þjer, er þokan fyllir dalinn,
við þig jeg stíg á kvöldin ljettan danz;

og þegar húmið hjúpar fjallasalinn,
jeg hnýti þjer úr berjalyngi krans —
og smeygi' í þína lokka fagurljósa
und lyngfljetturnar blómum eyrarrósa.

Og svo er ljósir daggardropar falla
í dúnalogni' um kyrra næturstund,
að brjóstum þjer jeg höfði mínu halla,
að hjarta mjer þú leggur hvíta mund.
Svo blundum við, er blómið daggvott grætur,
und blæjufaldi ljúfrar sumarnætur!

---

## Frá götunni.

Jeg gægist til þín opt um gluggann inn,
þar alein situr þú með hönd und kinn
og ljósum armi' að gluggagrindum styður,
— á götuna þú horfir til mín niður.

Þá stundum hálflukt eru augun þín,
en undan ljósum hvörmum geisli skín;
og ástargyðju æskudrauma minna
jeg í þjer þykist, vinan góða, finna!

Þú brosir til mín blítt, er einn jeg geng,
og bifar hvern míns anda hörpustreng;
  ef fleiri erum, ferðu út í skuggann
  og fölri móðu andar þá á gluggann.

Já, þú skalt bara anda gluggann á,
svo aðrir, kæra', ei fái þig að sjá, —
  í gegnum döggvað glerið samt í anda
  við gluggann þinn jeg sje þig löngum
                                        standa!

---

## Hjá glugganum hennar.

Hjá glugganum hennar jeg gekk svo opt, —
  já, getið þið hvað jeg þar sá!
Hin djúpu augun und dökkri brún
  svo dýrðleg mjer skinu þá.

Þau vou dýpri' en dýpstu höf
  og dekkri' en hrafntinnan.
En á mig horfðu þau, — ástarljós
  í augunum fögru brann.

Jeg sökkti mjer i það „svarta-haf“, —
  jeg sveimaði' í öldunum, —

jeg kafaði' í botn og fjölda fann
af fegurstu ástperlum.

Hjá glugganum hennar jeg geng svo opt,
og getið þið hvað jeg sje þar!
— Jurtaskál forna með fölnuð blóm
og freðin við rúðurnar!

---

## Kveðja frá Eyrarsundi.

(Orkt fyrir æskuvin höf. erlendis.)

Jeg hörpustrengi hræri' og kveð um þig,
er húmið væra' og nóttin faðma mig.
Í værum blundi hjala' eg við þig hljótt,
er hjartað í brjósti mjer slær svo fast og ótt.
Manstu það, kæra, er kvöldsólin skein,
kvökuðu fuglar við hreiðrin á grein,
vorblóma fagran þú færðir mjer krans,
fjörglöð við stigum í laufskógi danz!
Þá var nú ljúft að lifa
líðandi' um skógargöng,
líta þar blæinn bifa
blómin — og hlusta' á söng,
halla sjer þjer að hjarta,
hlæjandi faðma þig.

þitt innti augað svarta:
„Elskar þú mig?“

Nú ertu langt, svo langt í burt frá mjer,
en ljóð mín aptansvalinn til þín ber.
Þú mátt ei halda', að hafi jeg þjer gleymt:
hjarta mitt er þjer trútt sem fyrri geymt!
Fyrst er á *Eyrarsund* árblikið skín,
andi minn fjörglaður svífur til þín;
síðast í vestrinu' er sólroðinn dvín,
sendi jeg þjer brennandi ástarljóð mín.
Heyrirðu' ei stundum hljóma
hvíslandi' í eyru þín?
Þekkirðu þessa óma?
— Þeir eru kveðja mín!
— Vaggi þjer vonin bjarta,
vorblóm þinn skrýði stig!
Mæl enn: „Af öllu hjarta
elska jeg þig!“

---

## Rósirnar á gröfinni hennar.

Líð þú hægt með lágum nið,
lind mín, fram að græði!

söng þinn einmitt orti' eg við
öll mín fyrstu kvæði.

Hún, sem átti yndisblá
augu' og smáar mundir,
sat hjer forðum björt á brá
bakka þínum undir.

Hjer man jeg okkar fyrsta fund
fram við eyrár-brotið,
síðan marga sælustund,
sem jeg hef þar notið.

Blessað sje hvert strá og steinn,
þar stigir okkar lágu!
— — Nú er jeg, lind mín, orðinn einn
og augun lukt hin bláu!

* *
*

Jeg flutti rósir frá læknum ljósa, —
hún löngum ung við þann blómreit undi;
í aptanblænum á bakka grænum
þær brostu' á sjerhverjum okkar fundi;
en allra síðast þær brostu blíðast,
af blómknapp ístærir dropar streymdu,
mjer fannst þær segðu mjer, þó þær þegðu,
frá því, sem jeg og þær einar geymdu,
og beiddu mig

að bera sig
  að brjóstinu hennar, sem aldrei þær
          gleymdu.

Hún gaf þeim lífsfræ á lækjarbakka
  og ljek sjer hjá þeim sem barn á vorin.
— Jeg ljet þær gróa' á grafarbakka,
  þar gekk jeg með henni hinnstu sporin.
Um sólarlagið þar löngum sit jeg, —
á ljósgræn blöðin með fingri rita' eg
  tvo stafi', en rósirnar rauðu drúpa
  og reitinn purpura-voðum hjúpa,
svo tár mín á þeirra blómum brenni,
en brjóstið snerti þau ekki á henni!

Nú gróa rósir á grafarbakka,
er geislar ljósir til kvöldsins hlakka.
  Þeir brosa' og deyja við hafsins hjarta,
  er höfuð beygi' eg við leiðið niður.
  Til hennar veginn jeg veit hver ryður,
  sem vonin eygir við hylling bjarta. — —
Guð, — má jeg deyja við hafsins hjarta?

  Nú gráta rósir á grafarbakka, —
  sem geislinn ljósi' eg til kvöldsins hlakka!

# Tvö smákvæði.

## I.

### „Taktu sorg mína, svala haf!“

Taktu sorg mína, svala haf!
svæfðu' hana' í öldum þínum!
Berðu' hana' á brjóstunum þínum,
byrgðu' hana' í sölunum þínum!
Drekktu' henni' í djúpum þínum!
Syngdu nú grafljóðin, hljómsterka haf,
yfir helgustu vonunum mínum,
vænstu' og ljúfustu vonunum mínum!

Taktu sorg mína, sól, — og brenn
sorg mína' í geislum þínum!
Brenndu' hana' á bálstraumum þínum,
berðu' hana' á ljósörmum þínum!
Eyddu' henni' í eldi þínum!
Hve feginn jeg geng á það bál og brenn
með björtustu vonunum mínum,
vænstu' og kærustu vonunum mínum!

Taktu sorg mína, vinfast vor, —
og vefðu' hana örmum þínum!
Berðu' hana' á blævængjum þínum
burt undir himninum þínum!
Svæfðu' hana' á svanbrjóstum þínum!

Legðu blómin þín, ljúfasta vor,
á leiði' yfir vonunum mínum,
viðkvæmu, síðustu vonunum mínum!

Taktu sorg mína, góði guð!
— gleð mig af krapti þínum!
Lýs mjer með ljósunum þínum,
lypt mjer að hjartastað þínum!
— Jeg fel mig í faðmi þínum!
Láttu mig gleyma, ljúfi guð,
látnu vonunum mínum,
veslings bráðkvöddu vonunum mínum!

## II.

### Var — verður ekki!

Sárt væri' að líta þig liðna
og líkblæjum sveipta, —
sárt væri' að horfa' á þig hverfa
í hyldýpi grafar! —
Þó væri sárara' að sjá þig
frá sakleysi þínu
villta, og ást þína unga
af eiðrofum drepna.

Seint mun jeg gleyma þjer, góða,
þó gæfan mín verði

ef til vill undir því komin,
að eg fái gleymt þjer!
En heldur við ógæfu eina
og eymd vil jeg búa
en það að muna' ekki allt af,
hvað ást þín var hugljúf.

Því að jeg huga minn hvíli
við hjartfólgna minning
um það, sem *var*, þótt jeg viti:
það *verður ei aptur.*
Og þó nú sje gleðin mín gengin
og gráti jeg stundum
vegna þín, — vegna þín einmitt
jeg verð aptur glaður:

Geislinn þinn er það, sem gyllir
mjer grátdögg á hvarmi;
skugginn þinn er það, sem skyggir
á skrúðreiti vors míns! —
Þökk fyrir allt! . . . . . mjer er orðið
svo örðugt um málið! . . . . .
. . vonirnar . . . vonirnar! . . . góða!
Vertu nú blessuð!

17/4 1898.

---

## Hví verður mjer um hjartað heitt?

Hví verður mjer um hjartað heitt,
er hvarfla til mín augun þín?
Þú háð ert öðrum, aldrei neitt
þín örlög geta snortið mín!

Þitt hjarta enni' og brúnin dökk
og bláu augun töfra mig;
það er ei mitt, en mína þökk
þú með þjer tak, fyrst *sá* jeg þig!

Á hvíta sumarsjalið þitt
er sje jeg falla kolsvart hár,
þá tifar hraðar hjartað mitt
og hugann grípur löngun sár.

Er blíða raunabrosið þitt
mjer birtir, að fellt þú hafir tár,
mjer finnst sem ör mig hefði hitt
í hjarta' og veitt mjer banasár.

En ekki þig jeg þekki neitt,
og þú munt aldrei verða mín.
Hví er mjer þá um hjartað heitt,
er hugsa' eg stundum einn til þín?

## Til * * *

Hví er svo bólginn barmur þinn
og bráin þrútin, vinan mín?
Það fellur bjarmi' á fölva kinn
og fljóta' í tárum augun þín

Jeg gæti haldið, hjartað mitt,
þú hefðir lát mitt frjett í dag,
og sæi innra auga þitt
hjer allra vona sólarlag.

Mjer er svo tamt að trúa því,
að tregir þú við andlát mitt,
því þú ert góð og hjartahlý
og hafdjúpt, viðkvæmt geðið þitt,

Og ef þig, ljúfa, liti' eg ná,
við leiði þitt ef stæði jeg,
já, það veit guð: jeg grjeti þá
og gengi dapur lífsins veg.

Því bólgnar núna barmur minn,
er blika sje jeg tárin þín.
Það fellur bjarmi' á fölva kinn
og fljóta' í tárum augun mín!

## Falinn eldur.

„Due belle cose ha el mondo:
amore e morte.“
Leopardi.

Nei, þig skal aldrei, aldrei gruna neitt,
hvað ástin mín til þín er djúp og heit,
þó tíðar slá þú heyrir hjarta þreytt,
og hug minn særi það, sem einn jeg veit!

Þú veizt ei sjálf, hvert segulmagn þú átt
í sollnum barmi, — æ, sem betur fer! —
því mjer til varnar verða mundi fátt,
ef vopnum þínum beindir þú að mjer.

Þú veizt það sízt, að eg er unnin borg,
að á mjer vald þú hefur sterkt og ríkt.
Og þótt jeg byrgi' í brjósti þunga sorg,
jeg ber mig vel, — hvað kæri' eg mig um
slíkt!

Nei, þig skal aldrei, aldrei gruna neitt,
hvað auðvelt þjer er bönd að leggja' á mig!
— Mjer finnst jeg aldrei hafa svona heitt
af hjarta elskað nokkra mey sem þig.

14/1 1900.

## Vertu sæl!

Vertu sæl! — jeg verð að deyja,
vina mín, — hvað á að segja?
— Lengra fram! — Og augun eygja
  endurfæðing *þess*, sem *var!*
Hittumst aptur hinumegin!
Hjálpi okkur báðum regin!
Hvíli saman hjörtun fegin
  hjerna skilin, nátengd þar!

Aptur hallir byggjast brotnar,
bakkafyllast lindir þrotnar,
aptur gróa undir rotnar, —
  áttu, góða, þessa trú?
Segðu enn þá einu sinni
orðið, gæfu' er spillti minni,
  þótt það titri' á tungu þinni,
  tala það, ef getur, *nú!*

## Neistinn.

Það lifir lítill neisti,
— það logar enn í glæðum
af báli, sem í brjósti
  mjer brann á fyrri dögum;

hann lætur taugar titra
og tilfinningar æsir,
hann hitar' um hjartarætur
  og hraðar æðaslögum.

Jeg sökkvi sálu minni
í sædjúp augna þinna,
hið dularfulla, djúpa,
  hið dökkva, sítindrandi.
Og neistinn brennir, brennir,
já, brennir jafnvel sárar
en áður, — mjer finnst alveg
  sem eg á glóðum standi.

Jeg kyrri hugans hafrót
og hjartans raddir þagga,
og hugsun hverja drep jeg,
  sem hvarfla vill til þín!
En, neistinn litli lifir!
— Mig langar til að drepa' ann
og fara burt, svo fótspor
þú finnir aldrei mín!

---

## Kvöldmótið.

Dregur draumblæjur
dökkvar njóla
yfir haf og hauður.
— Seg mjer, blástjarna,
sástu ekki
meyna mína hjörtu?

Sefur hin sólbjarta
sætum blundi
bak við glugga-blæjur?
Gleymdi' hún að vitja
á vinar fund
út að unnum svölum?

Dilla þjer döfljúfir
draumar, svanni,
úti' á hverfanda hveli?
— Hljóm-milda, hýreyga,
í höfgum dvala
muntu' ei nafn mitt nefna?

Ískaldur, úrsvalur
andar náttblær,
hvíslar huliðs mál;
hlusta' eg á hafstunur,

horfi' eg á deyjandi
  báru' und klöppum köldum.

Kveður kyljan:
„Hún kemur ekki!“
  En jeg mæni, mæni!
Heyri' eg þig hvervetna
hljóðum skrefum
  færast nær úr fjarlægð!

En þú dvelur. —
Það er dauðaþögn,
  hljóðnar blær og bárur.
Vakir þó og vakir
á vogi ein
  hafmey ljós í húmi.

Drjúpa brimhvít
af björtum lokkum
  saltdrifin silfurtár,
tindra þau á mjallhvítum
meyjarbrjóstum
  eins og aptanstjarnan.

Vill hún vefja mig
votum örmum,
  ef þú kemur ekki?
— Tælandi, töfrandi,

tárfögur mey,
sígðu' í sædjúp aptur!

* *
*

Gnauða gjálpir,
gjálfra svalvindar, —
en þú kemur ekki!
Vissirðu, hvað brýzt um
í brjósti mínu,
mundirðu koma' í kvöld.

---

## Gullmuran.

Jeg sá þig á ófrjóvum eyðimel fyrst,
þig, indæla blómið mitt smáa!
Og síðan jeg opt hjá þjer glaður hef gist
og gremjuna' og drungann af sál minni hrist
og dvalið und himninum brosandi, bláa
við brjóst þín hjá klettinum lága.

Þú kinkaðir blómkolli' í bergskoru þar,
það blikaði' á gullkrónu þína.
Það hrundu' á þig tár mín, er hryggur jeg var, —
þú hrærðist, er döggin sú vökvun þjer bar.

Í djásnið þitt greypti jeg demanta mína, —
sem drottning þú áttir að skína.

Jeg leitaði' úr solli og fann hjá þjer frið,
jeg flutti þjer brosandi kvæði.
Í skorunni' í klettinum hvíldi' eg á hlið
og hjárta mitt skalf, er þig talaði' eg við;
og krónan þín drúpti' og við döpruðumst
bæði,
er dagsólin hnje o'ní græði.

* * *

Jeg minnist þess allt af, — hvert einasta
sinn
með augun mín fljótandi' í tárum,
er sleit jeg upp glóandi gulltoppinn þinn
í gáleysi' og lagði' hann við hjartastað
minn,
þess glapræðis hef jeg á æfinnar árum
opt iðrast með harmtrega sárum.

Jeg horfði' á þig fölva, en hjálp gat ei
veitt:
jeg hafði þig slitið frá rótum.
Jeg sá það, er hneigðir þú höfuðið þreytt,
jeg horfði' á þig deyja', en jeg gat ekki neitt!

Jeg sá, er þú steinliðin fjellst mjer að
fótum,
— hve fallvalt er allt, sem við njótum! —

Í dálitlu blómkeri bjó jeg um þig
og bar þig í sólgeislann skæra,
og társtraumar upphimins opnuðu sig
og ætluðu' að lífga þig rjett fyrir mig.
En unnt var ei lífið þjer framar að færa,
þú fölnaða blómið mitt kæra!

Og hvert sinn, er glitrandi gullmuran smá
nú glóir á veginum mínum,
jeg snerti' hana alls ekki' og sný henni frá
og snortinn af ótta og söknuði' og þrá
jeg hugsa' um, að ást mín í óstjórnleik
sínum
varð orsök í dauðanum þínum!

---

## Vísur.

Farðu blessuð, — mundu mig,
mundu mig æ sem bróður!
Ó, að jeg *gæti* elskað þig
eins og barnið móður!

Farðu blessuð! — Fyrir mig
faðmi þig gæfan bjarta!
Ó, að jeg *mætti* elska þig,
en, — ekki tjái'r að kvarta!

---

Haltu, góða', um hálsinn minn,
hnígðu' að mínum barmi,
eins og vafningsviðurinn
vefur hlyninn armi.

* * *

Þegar allt er yndisbjart
yfir sálu minni,
skýzt fyrir ljósið skýið svart:
skuggi' af ótryggð þinni.

* * *

Þú fjekkst allt, er átti' eg bezt,
— enn mjer svíður skaðinn; —
þú tókst allt, en eitt er verst,
að illt eitt ljeztu í staðinn!

* * *

Hún var mín og henni' eg unni,
hef jeg enga fegri sjeð;
hún var mín, en hún ei kunni
hjarta mitt að fara með.

* * *

Það er flest, sem þjáir mig,
þó skal síðla kvíða,

af því mest jeg elska þig,
auðarhlíðin blíða!

* *
*

Þegar aptanskinið skín á *Skarðsfjalls*
hlíðar,
endurminning sálu svalar,
sem er þó um leið til kvalar.

Man jeg rjett hjá *Hellum* háa hvamm-
inn græna;
áður þar hjá ungum svanna
undi' eg milli blómknappanna.

Víða' er hlíðin brotin, breytt af brött-
um skriðum, —
einnig lífs míns ljúfu stundir
liggja þungum skriðum undir!

* *
*

Ef jeg dey á undan þjer,
eptir runnið skeiðið,
fram til grafar fylgdu mjer,
en felldu' ei tár við leiðið!

Veiztu' að það mjer, vina mín,
veldur dýpstum harmi,
sjái' eg trega-tárin þín
titra' á ljósum hvarmi?

* *
*

Loksins þig jeg þekki, fljóð!
— þvílíkt hjarta' eg aldrei sá:
það er heitt sem *Heklu*-glóð,
heljarkalt sem *Jökulsá.*

---

## „Skilaðu, Varus, herskörunum mínum!"

Í hvelfingu dundi', er hófu þeir
háreystir vígslu söng; —
það voru öll af orgelhljóm
ómandi kirkjugöng. — —
„Skuggsýnt er, Lofn, í skógarlundum þínum!
— — — Skilaðu, *Varus*, herskörunum mínum!"

Í brúðarskarti björtu' hún stóð
blómleg við gráturnar;
það tindruðu' í augum yndisblám
elskunnar demantar. — -
„Skuggsýnt er, Lofn, o. s. frv.

Og ljósin skjálfandi skinu þar
á skrautlega brúðkransinn;
það var eins og þau óttuðust
á honum ljóma sinn. — —
„Skuggsýnt o. s. frv.

Á loptsvalirnar leit hún upp,
— litum hún ekki brá,
en eitthvað glampaði annarlegt
í augunum hennar þá. — —
„Skuggsýnt o. s. frv.

Í augum tindruðu yndisblám
elskunnar demantar; —
— hún gaf honum sig og annað allt,
en *ekki* þær gersemar. — —
„Skuggsýnt o. s. frv.

Það veitti' honum *allt*, er átti' hún
*sjálf*,
hið örlaga-þrungna „já.“ —
Nú sýndust mjer drjúpa demantar
þeir dýrustu' af hennar brá. —
„Skuggsýnt o. s. frv.

Að vígslulokum þau leiddust út.
— Lofsálma fólkið söng!
Í kirkjuturninum kvað við hátt
*kærleikans líkaböng:*
„Skuggsýnt er, Lofn, í skógarlundum þínum!
— — — *Skilaðu, Varus, herskörunum mínum!*“

## Draumur.

**Í minjabók ungrar stúlku.**

Mig dreymdi', að hrapa himininn jeg sá,
og heljar-myrkur grúfði þungt í kring
og sól og stjörnur gleypti koldimm gjá,
og geig mjer vann sú feiknar umbreyting:
Hver stjarna hrundi
í hafið niður,
og heljarkliður
i hnúkum drundi;
Svo varð allt hljótt,
það varð heldimm nótt, —
jeg horfði' út í sortann og stundi.
Þá birtist mjer allt í einu ljós
með ilríka geisla' og bjarta,
sem máluðu' á veg minn rós við rós,
— mjer rótt varð og ljett um hjarta.
„Á það líka' að deyja, það ljós?“ — jeg kvað,
og ljósið, það titraði'! — Eg hrökk upp við það.

## Þrek og tár.

*Hann*: „Viltu með mjer vaka', er blómin sofa,
vina mín, og ganga suður' að tjörn?
þar í laut við lágan eigum kofa, —
ljekum við þar okkur saman börn.
Þar við gættum fjár um fölvar nætur,
— fallegt var þar út við hólinn minn. —
— Hvort er sem mjer sýnist, að þú grætur?
Seg mjer: hví er dapur hugur þinn?"

*Hún*: „Hví jeg græt? — Ó, burt er æskan bjarta,
bernsku minnar dáin sjerhver rós!
— Það er sárt, í sínu unga hjarta
að sjá, hve slokkna öll hin skærstu ljós!
Ó, hve fegin vildi' eg verða aptur
vorsins barn og hjerna leika mjer;
nú er lamað þrek mitt, þrotinn kraptur,
þunga sorg á herðum mjer jeg ber!"

*Hann*: „Hvað þá? — gráta gamla æskudrauma,
gamla drauma, bara óra' og tál!
láttu þrekið þrífa stýristauma,
það er hægt að kljúfa lífsins ál.

— Kemur ekki vor að liðnum vetri?
Vakna' ei *nýjar* rósir sumar hvert?
Voru *hinar fyrri* fegri, betri?
— Felldu' ei tár, en glöð og hugrökk
vert!"

*Hún:* „Þú átt gott: þú þekkir ekki sárin!
Þekkir ei nje skilur hjartans mál!
*Þrek* er gull, en gull eru líka *tárin*,
guðleg svölun hverri þreyttri sál!
Stundum þeim, er þrekið prýddi' og
kraptur,
þögul, höfug fjellu tár um kinn.
En *sama* rósin sprettur aldrei aptur,
þótt *önnur fegri* skreyti veginn þinn!

---

## Hulda.

Hulda mín, hjá hólnum þínum forðum
mjer jeg undi' á æskustund,
á þinn fund jeg gekk í blund.

Fjærri glaumi' í fögrum draumi hjá þjer
heyrði' eg ljóð þín ljúf og góð,
— loguðu glóðheit brjóst þín, fljóð!

Þína duldu, þöglu, huldu-sali
fjærri þrái' eg sárt að sjá,
sælu þá, er býr þjer hjá.

Stendur þekkur steinn í brekku þinni,
grær þar rós í leyni ljós,
legstað kjósa' eg mun þar, drós!

## Sumarnótt.

Nú ómar harpan þín yndisleg
úti' yfir svölum legi;
á tónana hrærður hlusta jeg
og hressandi kvöldloptið að mjer dreg,
sem andar úr Vesturvegi, —
þar geislarnir danza' um votan veg
og vaka' yfir blundandi sumardegi, —
nú leiðist mjer lífið eigi.

Það leikur rauðbleikur roði sjer
og rósletri fjöllin stafar.
Og hafgúan syngur við sofandi sker,
en söngurinn hljómar þó snjallar hjá þjer,
er sólin er gengin til grafar!
Og lengra' og hærra þú lyptir mjer,
lengra og hærra' en augað sjer;
af hálsi mjer hrökkva klafar,
í himinsins ljósöldum sál mín kafar.

Mig langar eitthvað svo eilífhátt
út, út í ljósvakans strauma:
að leika mjer þar um lopthvolf blátt,
að líða þar áfram um sumarnátt,
að sofna við himneskan hörpuslátt
og hugsjóna minna þar njóta' og drauma,
þar's glitklæði framtíðar geislarnir sauma.

Mig sárlangar hverja' að ráða rún,
sem rituð var mjer í hjarta,
á fjörusandana', á fjallabrún,
á fljótin, blómin og iðgræn tún,
á hafið hið volduga, bláa, bjarta,
á blikfeldinn dagsins og nátt-tjaldið svarta.

Að vísu bera mig hreimarnir hátt
frá hörpustrengjunum þínum,
en þó er jeg enn þá svo lágt, svo lágt,
og lífið er enn þá svo torskilið, smátt.
Hvort vakir í ljósinu' í vesturátt
vonin með heitorðum sínum:
að þokubönd hnigi' af hvarmi mínum,
að ráðgátur lífsins ráðist brátt,
er rúnaspjöld framtíðar-geislarnir skína' um,

að allt verði ljóst fyrir æðri mátt
og alheimur bjartari sýnum? — — —

Sko, þokudílana' dökku' eg lít
við daggeisla lækkandi glímu þreyta,
og sumstaðar smáský silfurhvít
í sífellu mynd sinni breyta.
Að hverju' eru skýin litlu' að leita?
— Þau lið vilja húminu veita.

Í kvöldroðans ljómandi logahaf
þau liðin og örmagna falla,
er dimmbrúnum 'fjallanna fjarlægu af
þau feimin læðast og steypast á kaf
í ljósið, — þau sjá, að þau sigra varla
þann sama, sem skóp þau og daginn gaf.

Og nóttin húmtjaldar himininn
og hjúpar allt skuggum til sveita.
En ljómandi vaggar sjer ljósboðinn,
lengst út við hafsbrún og fjallstindinn, —
upp á við, upp vill hann leita!

Með fingrunum ljettu' hann leikur sjer
að ljósbláa kögrinu' á húmfeldi nætur
og brosandi hljóðlega' í barm hennar fer,
en blikandi daggtárum þegjandi' hún grætur
og fallast í faðm hans lætur.

Nú sefurðu, blessuð sumarnótt,
hjá sjafna þíns, daggeislans, barmi;
nú þagnar harpan þín, — þjer er rótt.
og það er allt umhverfis beð ykkar hljótt,
Senn glitrar þjer árroðans gull á armi:
senn glóir í austrinu bjarmi!

---

## Sumarkvöld til fjalla.

Það dimmir af nótt og dregur um hlíð
hin dökkbláu húmtjöld um aptaninn síð.
— *Heyrið sönginn í hamranna höllum!* —
Þar kveður nú *Hulda* hinn deyjandi dag,
mig dáleiðir, hrífur hið töfrandi lag
*í kyrrð; — það er kvöldroði'* :,: *á fjöllum.* :,:

Hjer elska' eg hvern stein og iðandi lind,
hjer elska' eg hvern fjalldrang og storm-
barinn tind.
*Heyrið sönginn* o. s. frv.
Hjer elska' eg hvert fjallblóm, hjer elska'
eg hvert strá,
hjer elska' eg hvern ljósálf, sem dvelur
mjer hjá
*í kyrrð*; o. s. frv.

Jeg ann þessum blæ, er bljes mjer um kinn
í bernskunni', er sat jeg við gullfossinn
minn.
*Heyrið sönginn* o. s. frv.
Sem ástmey hver minning um æskunnar
frið
um aptaninn brosandi talar mig við
*í kyrrð;* o. s. frv.

Hjer sit jeg og kveð, í sædjúpin köld
er sólin er brosandi hnigin í kvöld.
— *Heyrið sönginn í hamranna höllum!* —
Og vonirnar sælu með sjálfum mjer tel,
er sofnuðu' og dóu...... Hjer uni' eg
mjer vel
*í kyrrð; — það er kvöldroði'* :,: *á fjöllum.* :,:

---

## Vorvísur.

### I.

Slær á hafið himinblæ,
hyllir undir dranga,
geislum stafar sól á sæ,
signir grund og tanga.

Út með sænum einn jeg geng,
að er hrannir falla,

heyri' í blænum hörpustreng
hafmeyjanna gjalla.

Við þann óminn eyk jeg spor
út við svarta dranga;
það eru' hljómar þínir, vor,
— þeir til hjarta ganga!

Blessuð ljóð þín ljúf og hlý
lama svartan trega;
vor mitt, óðinn þjer jeg því
þakka hjartanlega.

Bezt jeg uni einn hjá þjer
út við kletta' á daginn,
þar sem brunar blá við sker
báran ljett um sæinn.

Þar jeg minnist þess sem var,
þá í lund mjer hlýnar:
aptur finn jeg einmitt þar
yndisstundir mínar.

II.

Blessað vertu' og velkomið,
vorið yndisbjarta!
Nú er mjer sem finni' eg frið
og fjör í mínu hjarta.

Kom þú sælt með sólarljos,
sumarylinn hlýja;
kom þú heilt með hverja rós,
hjartans gleði nýja!

Láttu blíða blæinn þinn,
blakta' í himinsölum,
kveða ljúflings-sönginn sinn
sætan inni' í dölum!

Gylltu voga, lýstu lönd,
ljómaðu' á brúnum fjalla,
legðu gull í hverja hönd,
huggaðu' og gleddu alla!

Vertu góðra vona skjól,
vaggaðu hverju barni,
láttu þína ljúfu sól
ljóma' að hverjum arni!

Blessað vertu' og velkomið,
vorið yndisbjarta,
þú, sem allt af fró og frið
fyllir sjerhvert hjarta!

---

## Anadyomene.

Stíg upp úr öldunum, eilífa dís!
— Það er eitthvað svo skuggalegt hjer:
í svartasta skammdegi síðla rís
sólin úr mar; — þessi vetur og ís,
þetta niðdimma lágnætti leiðist mjer, —
mig lengir svo mjög eptir þjer!
Jeg mæni, jeg kalla, —
á kald-mjúku bólstrana lognfæddra mjalla
jeg vefrjettar leitandi höfðinu halla. —
Og gjálfrið í sænum þitt goðsvar er,
sem get jeg þó skilið varla!

Já, stíg upp úr öldunum, svip þinn mjer
sýn
við sindrandi stjarnanna loga
frá guðs-sala breiðhvelfdum boga!
Jeg ósjálfrátt, ljúfa, leita þín, —
legðu' af þjer náttblæjur dimmblárra voga!

* * *

Mjer leiðist það sífellda þjark og þref
um þjóðmál og stjórnfrelsi' og sjálfstæði
landsins:
mjer þokar ei áfram eitt einasta skref,
fremur öðrum, er þekkt jeg hef,
í hvirflandi smáögnum hugmynda sandsins.

Það gengur svo örðugt að „græða' upp“
þann sand:
við getum í þessum blástri
ekki agnirnar fest, ekki fundið þeim band,
það fer allt í tómu bjástri;
og bert er og autt
og aumt er og snautt
sem áður mitt blessaða land!

Mjer leiðist svo þokan og þröngsýnið.
hver þrælbundin ómennishönd.
Það skiptist á nöldrið og nærsýnið
og nútíð-blekkjandi fjærsýnið,
sem skyggnist í feðranna' hauga' eptir hræj-
um
og hlekki sjer fljettar úr rotnuðum tægjum,
sem fjötra við úrelta fortíð önd. —
Með þeim flónum jeg ligg ekki' á gægjum!

Mjer leiðist að horfa' á þá heimsku sveit,
hugsunarsnauða með loppur í vösum,
sem skeytir ei neitt um sín helgustu heit,
sem hlutskipti' og starfsvið ei fegurra veit,
en reykjandi' að sitja' í solli' yfir glösum.

Jeg fyrirlít „lómanna'“ og „skúmanna'“
skrum,
er skömmum og nautshnútum sendast á
löngum.

Og unggæðisleg eða örvasa' og hrum
er hver einasta hugsun í kúpunum þröng-
um.
— Það sannfagra situr í öngum!

En síst vantar glamrið og gelt er nógu hátt:
það er glamrið í hugsana meinþungum
hlekkjum.
— Það er talað svo margt, en meint svo
fátt,
og mærðin á takteinum, brosað svo dátt
af fleðuskap, fláræði' og hrekkjum,
og illgirnin klappar
og aulavit stappar
á áhorfendanna bekkjum.

Mig þreyta þau vesælu lognmollu-ljóð
með „lífið mitt blíða!“ og „elskan mín fríða!“
— Jeg hræki' á þann barmfulla „sorganna“
sjóð,
er safnað er handa þjer, kjarklitla þjóð,
og krapti þig sviptir með sigri að stríða
og sýgur úr æðum þjer lifandi blóð.

Mjer leiðist allt borg-slúður, bæjarfjas
um brotna hringi og saman-steypta, —
og kaffi-þvaður og kerlingamas
um knæpuför, bjóra og glas,

um gōtu-ástmál og flangs og flas, —
um fallegar svuntur og steina í brjóstnálar
greypta.

* *
*

Jeg hef öslað um heimslífsins iðukast
og opt hef jeg fleytuna brotið.
Það var ýmist lygnt eða ofsahvasst. —
— Jeg hef elskað og hatað og lifað og
notið!
Og kjarkinn mig stundum og karlmennsku
brast,
á kilinum samt hef jeg flotið.
Og enn er allt ekki þrotið!

Úr blindingsleik tálmynda trylltum jeg rís,
og til þín jeg kem nú, hin himneska dís,
út að volduga, víða sænum!
Ó, tak mig í faðm þjer, með logum mjer
lýs,
sem ljóma svo þúsundfalt skærar en kvöld-
týrur þessar í bænum,
— í óhreinum ljóskerum, — skyggðar af
gardínum grænum!

Þú rís upp úr öldunum, rjettir mjer hönd,
og róssveiga' um höfuð þjer stjörnurnar
fljetta.
Jeg sje þig fyrst út við sjónbaugsrönd,

þú svífur til mín yfir hafflötinn sljetta
með svipinn þinn lífglaða, ljetta!

Jeg bið þig um hvíld, jeg bið þig um frið,
jeg bið þig um ljós í mitt hjarta! —
Í víðlendum þínum mjer veittu grið,
þú volduga drottningin bjarta!
Þögn þín er óttaleg, — seg mjer þitt svar!
Svar! — Svar! —
Himneska! gef mjer þitt góðasvar:
jeg get ekki lifað í myrkrinu svarta!

Þú steinþegir, hnígur svo hátignarleg
í hafið þitt aptur niður!
Á enni þjer ljómar hinn eilífi friður.
— Í herfjötrum efans eptir jeg
sit einmana sæinn viður.

---

## Í íshúsinu.

Jeg teigaði sólskinið, himininn hló
og hjartað var ljett og glatt;
þá orkti' eg um blómin og æskunnar ró,
en aldrei um klungur og frostin og snjó, —

þá var gaman að lifa, — jeg segi það satt! —
er sumar í huganum bjó.

Á kvöldin jeg sá bak við skýbólstra skarta
í skrúðtjöldum sólroðans kastala bjarta,
og jeg átti þá alla,
en jeg ætlaði sízt,
að þeir fyrr mundu falla,
en jeg fengi þeim lýst!
Og ánægjan hló mjer í hjarta.

Jeg sá skrúðgrænan völl, —
þar stóð skrautbúin höll
og þar skrjáfaði' í tjöldum úr silki og pelli;
það var fagurt að sjá,
þegar sólroðinn brá
yfir svalir og hvoltturna ljóma, sem frá
geisladýrð lagði' yfir ljósgræna velli. —
Fyrir löngu' er nú marmarahöllin mín há
hrunin og mosa-grá
og ormjetnar súlur af elli!

Og blómgarðar ljómuðu,
en lóunnar hljómuðu
ljóðin hin þýðu þar yfir á vorin.
Og fjall-lindir niðuðu,
en fiðrildin iðuðu

um fegurstu blómin — þar mörg átti' eg sporin;
um engin í bugðum sig lækirnir liðuðu,
í laufrunnum þrastanna vorkvæðin ómuðu;—
í heiminn jeg þóttist til hamingju borinn.

Hve særinn var fríður,
hve blærinn var blíður,
hve brosfagrar rósir við ljósálfadanz!
Þar bundu mjer vonirnar kátar krans
úr kóröllum hafsins og blómunum lands,
og hafdísa söngkliður hljómaði viðkvæmur, þýður.
— — — — — En það geysar nú stormurinn stríður,
eyðandi alls,
frá fjöru til fjalls,
og fjallblómin smá
eru fallin í dá,
laufin hríðarnar hrjá,
— það er sorglegt að sjá,
er um skývegu ógnþrungin skapanorn ríður.

---

Svo var það einn góðan veðurdag,
að var jeg að raula gamanlag.
— Það var sumar og úti' á svölum jeg stóð,

á sólblikið starði' eg á höllinni minni,
það var heitt bæði' úti' og inni, —
þá orkti jeg gleðiljóð.

Þá kom *Sorgin* og rjetti mjer helkalda höndina,
jeg hjelt, að jeg mundi þá gefa' upp öndina:
Mjer varð þungt um hjartað, hún þrýsti mjer
að hjartalausum barmi
og bleikfölum armi
hún batt mig og kvaddi mig heim með sjer
í salina myrku, þar sólin skín aldrei,
en sífelldur jökull er.

Og nú er jeg orðinn af elli grár
í íshúsi sorgarinnar.
Þar hef jeg setið í sextíu ár
og sól hefur aldrei mjer skinið á brár,
í fótum er bjúgur og hvítt er hár,
á hendurnar dottin sár, —
að hrími' er orðið hvert einasta tár
æfinnar döpru minnar, —
bólgnar og kalnar kinnar.

En sú kemur tíðin, að sólin skín
þó sumarið hjer komi aldrei til mín,
og bölið mitt beiska dvín.
Jeg sje skrúðgræna strönd,
jeg sje ljómandi lönd,
jeg sje ljós, jeg sje *guð*, hann rjettir mjer
hönd
og dregur mig hjeðan úr helkulda' og ís
í hallirnar björtu til sín.
Þá frjósa' ei mín glóandi gleðitár,
þá gróa mín kaun og sár,
þar hvelfist yfir mjer himininn blár,
þar hleyp jeg svo ljettur og frár.
Hve skær verða ljósin,
hve ljúft angar rósin,
hve leggur mjer hlýjan yl um brár,
er setið jeg hef meira' en sextíu ár,
þar sem sólin mjer aldrei skín!

---

## Svipur útlagans.

Hann fæddist í fátækt, í meinum,
— hann fjekk ekki athvarf hjá neinum.
Á hjarninu fáklæddur hýmdi' hann,
við hungrið um líf sitt glímdi' hann.

Það varð enginn til þess að verja' hann,
þeir vöknuðu — til þess að berja' hann,
en aflvöðva herti' hann í hönd,
sem hefði lagt fús á hann bönd.

Þeir gáfu' honum guðlast að sök, —
hann gaf þeim hin skýrustu rök, —
þeir gátu' ekki' á flaki því flotið,
þeir fengu' ekki pennann hans brotið.

Því vissu þeir alls ekki af,
að auðurinn, sem hann þeim gaf,
var aflið, sem áfram þá bar,
en — ekki það gullhrúga var!

Til hjartnanna gróf hann sjer göng,
er hann grjet og hann hló og hann söng;
þeir fólust í fylgsninu svarta,
þeir fundu' ekki veg til hans hjarta.

Þeir reyndu' að svipta hann ró; —
þeir ráku' hann í útlegð, — hann hló!
Á *eigin* kostnað við eymd hann bjó,
á *annara* kostnað hann dó.

En samt er það svipurinn hans,
hins svívirta landflóttamanns,
sem blæs í þá dáðlausu dug,
sem drottnar í framgjörnum hug!

---

## Stökur.

Opt mig dreymir dagana,
dali, gil og bala,
þar sem heima' um hagana
hljóp jeg til að smala.

* * *

Sárt jeg, æska, sakna þín,
— sortnar á lífsins göngu.
Nú eru gömlu gullin mín
gleymd fyrir ævalöngu!

* * *

Lát þig ekki ergja það,
illa þó þig dreymi:
það er margt, sem amar að
oss í þessum heimi!

* * *

Ekkert brjef jeg frá þjer fæ,
— fjandinn hafi póstinn! —
Tannpínan mjer amar æ,
ónot, kvef og hóstinn.

* * *

Það er sárt að sitja' í kulda svangur inni,
geta' ei keypt sjer kol nje bita,
en kveljast við að lesa' og rita!

## Skerið.

Þig lemur kólgan og löðrið ólgar
með löngum sogum um brjóstin þín;
þú otar skalla, er unnir gjalla
og yfir vogunum stormur hvín.
Með kuldasvip hlær þú, er eldingar æða,
á öskrandi dunreið, er skalla þinn rjúfa,—
þig enginn sjer bærast, þjer enginn sjer blæða,
er eldfleygar brunandi hjarta þitt kljúfa.
Með steinhjálm rofinn, með steinskjöld klofinn,
þú stendur þolríkt og aldrei fellur,
og þangið bleika þú lætur leika
um löðurskolaðar, sprungnar hellur.

Og svo þegar mardísir hljómmildar, huggandi,
hörpurnar slá,
mjúklega' á vogi sjer vaggandi, ruggandi,
— vindarnir þegja og blunda þjer hjá,
og kvöldblikið roða þjer bregður um brá,—
þú breytir ei harðneskjusvipnum þunga,
en hnullungar svartir og hálir gljá,
og hrúðurskel alþakin klöppin þín grá
starir grafkyrr í dimmum drunga.

— Þú stendur þar danzandi dísunum hjá,
sem dauðinn hjá vonum og æskunnar þrá.

Og margur fleyið við brjóst þitt braut
og bana' í leginum kalda hlaut;
þó brimið öskrandi lemdi lík
og lemstruð beinin í fangi þjer,
þjer ekkert blöskruðu ósköp slík, —
af einskis kveini þú viknar, sker!
Að standa fast, það hið eina er,
sem aldrei brast þig og dugar þjer.

En fjelli' einhver lifandi' í faðminn þinn,
þjer fannst það ei koma þjer við;
þú sazt ekki' um líf neins, þú sveikst ekki
neinn
og þú synjaðir engum um grið.
Fyrir grimmdinni' í hafinu griðastað
þú gafst þeim, er fengu' honum náð,
svo stóðstu sem áður og hirtir ei hót
þó hungri þeir yrðu' að bráð.

Það var ekki þitt að vara þá neitt
við voða, sem stóð af þjer;
þeir áttu að sjá þig og þekkja þig,
að þekkja', að þú værir *sker*!
En margur í tvennri merking fjekk
þjer mein-ljetti' og björgun hjá,

og vegna þín fjöldamörg funheit tár
hafa fallið af þrútinni brá.

* *
*

Hví setur mig hljóðan, er horfi' eg á þig
og hugsa' um þig, lábarða sker?
— Mjer finnst það svo margt, sem þú minnir mig á,
svo margt, sem er náskylt þjer!
Að vísu jeg kysi' ekki kjörin þín öll,
en kjósa jeg mundi þó,
að standa sem þú, að storka sem þú
með steinhjarta lífsins sjó.

---

## Til hafsins.

Þú voldugi, stórfengni, stormþrungni sær,
jeg staðar nem fús þínum brimhjálmi nær!
Við þig vil jeg tala, um þig vil jeg yrkja,
þrótt minn og táp þínir hersöngvar styrkja!

Í eldmóði þrúðefldur þrumar þú hátt, --
hjá þjer er allt stórt, ekkert lágt, ekkert smátt.

Þú verður ei leiddur, þú lýtur þjer einum,
þín lög verða' ei ógilt nje brotin af neinum.

Og yfirvaldsbragðið á enni þjer skín
og ekki' ertu skelfdur þó heyrist til þín ;
þú þarft ekki' að smjaðra, þú þarft ekki'
að skríða
að þjóðstjóra fótum, sem tíðkast þó víða.

Þín ásýnd er tignarleg, ununarrík,
ægileg, hátíðleg -- sjálfri sjer lík.
Það mikla og fagra' er í fullkomnun
hjá þjer,
og frelsið er lifandi' á brjóstunum á þjer.

En margur á raunir að rekja til þín
og ranglæti bera þjer sumir á brýn ;
en við þig ei stoðar að malda í móinn,
nje mögla neitt við þig, hinn einvalda
sjóinn !

Úr ofnhita' og tóbaksreyk til þín jeg flý, —
jeg toga þinn brimhvíta skikkjufald í !
Ó, gjör þú að eldmóði munklökkvi mína,
— jeg margheiti' á síungu kraptana þína !

GUÐM. GUÐMUNDSSON

# LJÓÐMÆLI

MEÐ MYND HÖFUNDARINS

REYKJAVÍK
PRENTUÐ Í ALDAR-PRENTSMIÐJU
1900